# ÁRDÍS

## ÁRSRIT

### BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA

IX. HEFTI



WINNIPEG 1941

# ÁRDÍS

## ÁRSRIT

### BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA

IX HEFTI

*Ritsjórar*:
MARGRÉT STEPHENSEN
INGIBJÖRG J. ÓLAFSSON

*Manager*:
GUÐRÚN JOHNSON

WINNIPEG

# EFNISINNIHALD



# Friðarins dögg á hrjóstrin láttu hníga



Þessi bæn íslenzka skáldsins finnur bergmál í sálum þúsundanna á þessum tímum. Friðarhugsjón hins brezka veldis er háleit og fögur, staðföst og styrk. Hugsjón um alheimsfrið grundvallaðan á mannúð og kærleika en ekki grimd og hatri, á réttlæti en ekki ranglæti, á frelsi en ekki undirokun. Það er fyrir þessa hugsjón sem þegnar þess eru fúsir að leggja alt í sölurnar.

Mæður, eiginkonur, systur og unnustur gegna störfum sínum hughraustar og styrkar. Þær útheltu tárum sínum þegar hin yfirstandandi styrjöld hófst, þá skildu þær hvað var framundan. Nú miðla þær öðrum af sínum styrk, þær hlúa að kærleikanum í eigin sál, og í sínu eigin umhverfi, því þær skilja að:

"Þegar mannssálin kærleiksþrots kendi fyrst
Hún kvað upp sinn dóm — þá var Paradís mist.
Þaðan stafar alt jarðlífsins stríð,
þessi styrjöld frá ómunatíð."

Systra hópurinn stendur í þéttri fylkingu og starfar hávaðalaust og í kyrþey, starfar fyrir land sitt og þjóð, starfar fyrir þá, sem leggja líf sitt í sölur til þess að hin háleita hugsjón um alheimsfrið megi rætast — — þær hafa þrek til að horfa brosandi fram á leið, því

"Sjá í fjærsýn blasir við blíð
hin blessaða ókomna tíð
þegar kærleikur grundvallar guðsríki' á jörð,
þegar grædd eru' og bætt fyrir alþjóða mein,
þegar elskan um heimsfriðinn halda vörð
þegar hljóðnar hið sárbitra kvein:
Hrópið aldanna' um frið,—
Drottins eilífa frið,
er að síðustu opnar in harðlæstu hlið."

*Ingibjörg J. Ólafsson.*

# "Enginn fær mig ofan í jörð áður en eg er dauður."

*Erindi flutt á ársþingi Bandalags lúterska kvenna á Gimli 6. ágúst, 1941.*

*Eftir Mrs. Einar P. Jónsson.*

Þegar forseti Bandalagsins, Mrs. Ólafsson, bauð mér að flytja erindi á þessu þingi, lagði hún mér í sjálfsvald umræðuefnið, en gat þess þó að vanalega væru erindin um efni, sem væri í samræmi við starf Bandalagsins. Eg hefi kosið þjóðræknismál sem umræðuefni. Þótt það mál sé ekki á stefnuskrá félagsins, þá tel eg að það félag, sem samanstendur af íslenzkum konum, sé í raun og veru að nokkru leyti íslenzkt þjóðræknisfélag. Íslenzkar konur bundnar félagsböndum til þess að vinna að einhverju ákveðnu takmarki, í þessu tilfelli að eflingu kristindómsmála. Ef við hefðum ekki borið rækt til okkar eigin kynstofns, þá hefðum við sennilega, sérstaklega í bæjunum, gengið í kirkjur með annara þjóða fólki og ekki hirt um að stofna okkar eiginn íslenzka kirkjulega félagsskap. En okkur langaði til að halda hinn íslenzka hóp; þar finst okkur við eiga heima. Eg tala því hér í þeirri trú, að "Íslendingar viljum vér allir vera," enda er það ein af sterku stoðum félagsins, að við finnum til skyldleika okkar hver við aðra; að við erum þjóðsystur. Ef að sú tilfinning hverfur nokkurn tíma, er hætt við því að félagsskapur okkar verði veikari fyrir en áður.

Bandalag lúterska kvenna hefir sýnt í verkinu, að það vill varðveita þjóðarsérkenni okkar með því að styrkja á margan hátt íslenzka þjóðræknisviðleitni. Í þingtíðindum undanfarinna ára sé eg að fundir kvenfélaga og þing hafa verið haldin að mestu á íslenzku; ræður hafa verið haldnar um mæta, íslenzka menn og konur; Bandalagið hefir staðið fyrir samkepni í framsögn íslenzkra ljóða; það hefir beitt sér fyrir því að safna söguatriðum um íslenzka frumbyggja; ýms kvenfélög Bandalagsins hafa haldið íslenzkar samkomur, æft íslenzk leikrit, stofnað íslenzka barnasöngflokka. Og það mé telja merkan viðburð í sögu Vestur-Íslendinga, að árið 1933, nærfelt 60 árum eftir að íslenzkt landnám hófst í Vesturheimi, er stofnað íslenzkt rit af íslenzkum konum — ársritið Árdís.

Alt þetta sannar, að lifandi og virkur áhugi ríkir innan Bandalagsins fyrir því, að varðveita þjóðararf okkar frá glötun, og er það vel, því — "það er stutt stig og fljótstigið frá því að kasta þjóðerni sínu til þess að kasta feðratrú sinni." Þannig komst hinn mikil-

hæfi leiðtogi, séra Jón Bjarnason, að orði í ræðu, sem hann hélt á fyrsta Íslendingadeginum hér í álfu. Honum fanst að ef þjóðerni okkar væri hætta búin, þá væri trú okkar jafnframt í veði, — að gleyma ættjörð sinni gengi næst því að gleyma Guði. Ef til vill finst sumum að hér sé árinni dýft ærið djúpt í, en ef þessi kenning er brotin til mergjar, þá kemur í ljós að í henni er fólginn mikilvægur sannleikur. Skyldur okkar við móður og föður, ættmenn og þjóðbræður, eru heilagar. Enginn getur brugðist þeim skyldum án þess að bíða tjón á sálu sinni. Fjórða boðorðið er svona: "Heiðra föður þinn og móður þína, eins og Drottinn, Guð þinn, hefir boðið þér, svo að þú verðir langlífur og svo þér vegni vel í því landi, sem Drottinn, Guð þinn, gefur þér." Því aðeins að vér berum virðingu fyrir uppruna okkar og okkur sjálfum, verðskuldum við virðingu annara, og því aðeins að við rækjum ættar- og þjóðernisskyldur okkar, munum við sem íslenzkir Canada-menn og konur verða langlíf og vegna vel í okkar kæra landi, sem Drottinn hefir gefið okkur, — Canada.

Það telst því þjóðflokki okkar til sæmdar, að þrátt fyrir það þótt Íslendingar væru allra manna fljótastir að semja sig að þessa lands siðum og tækju fullan þátt í öllum mannfélagsmálum hér, þá er það rómað, að ekkert þjóðarbrot í Canada, að undanskildum Bretum og Frökkum, hafi varðveitt þjóðernisvitund sína, menningu og tungu eins vel og Íslendingar. Ef þetta er rétt, þá er það sennilega því að þakka að strax voru stofnuð íslenzk blöð og tímarit, sem urðu tengiliðir milli hinna dreifðu íslenzku nýbygða og heimaþjóðarinnar. Í öðru lagi mynduðu Íslendingar ótal félög sín á meðal, söfnuði, kvenfélög, líknarfélög, lestrarfélög, bindindisfélög, söngfélög, ungmennafélög, o. s. frv., en eins og eg gat um áður, þá eru slík Íslendingafélög að nokkru leyti þjóðræknisfélög. Í þriðja lagi ruddu Íslendingar sér fljótlega braut á mörgum sviðum og sýndu að menn af okkar þjóðflokki voru jafnokar annara, og stundum fremri. Þetta vakti réttmætan þjóðarmetnað. Okkar fyrstu leiðtogar, svo sem séra Jón Bjarnason og margir fleiri, voru og strax á verði og sýndu fram á, í ræðu og riti hversu mikið tjón við myndum bíða við það, að tapa sjálfsvitund okkar, tungu og þjóðararfi. En eg hygg að eitt, sem hefir haft mikilvægari og hollari áhrif á þjóðernisbaráttu okkar en við gerum okkur alment grein fyrir, sé það að margir merkir menn af brezkum stofni hafa kunnað að meta menningararf okkar og hafa hvatt okkur til að varðveita hann og leggja hann fram sem okkar skerf til þeirrar menningar, sem er að skapast í okkar unga landi, Canada. Eg ætla aðeins að nefna þrjá: Hinn ágæta Íslandsvin Lord Dufferin, ríkisstjóra Canada, sem talaði kjark í íslenzka frumherja á hinum fyrstu landnámsárum; prófessor Watson Kirkconnell, sem hefir gert meir að því en flestir aðrir að útbreiða þekkingu um Íslendinga og

bókmentir þeirra og Lord Tweedsmuir, fyrverandi ríkisstjóra Canada. Í skeyti, sem hann sendi Lögbergi á fimtíu ára afmæli þess blaðs segir hann meðal annars: "Eg vona að Íslendingar í Canada haldi ævarandi trygð við erfðaeinkenni þjóðar sinnar, því þau eru ómetanlegt tillag canadiskri menningu."

Að slíkir áhrifamenn sem þessir tóku þessa afstöðu gagnvart okkur, hefir óneitanlega stuðlað að því að feykja í burt þeirri vanmáttarkend (inferiority complex), sem við kunnum að hafa þjáðst af í sambúðinni við hina voldugu og fjölmennu brezku þjóð. Ummæli þessara manna og annara hafa einnig orðið til þess að eyða öllum ótta við það að það yrði talin landráð eða óhollusta við Canada ef við héldum trygð við það, sem íslenzkt er.

Það er eðlilegt að mentaðir, brezkir menn skilji og virði þessa baráttu Íslendinga gegn því að sérkenni þeirra þurkist út í hinni canadisku þjóðadeiglu því það er margt skylt með Bretum og Íslendingum. Bretar eru framúrskarandi ættrækinir og þykir ekkert eins virðulegt eins og það, að geta rakið ættir sínar til göfugra manna; að halda ættarskildinum hreinum er skylda; að verða ættarskömm er verra en dauðinn. Þeir kunna líka manna bezt að meta sögu sína og fortíð. Hversu oft heyrum við ekki forvígismenn þeirra þegar þeir tala til þjóðarinnar á þessum síðustu og verstu tímum, skírskota til minninganna um sína frægu fortíð og sína mestu menn, fara með uppörvandi kvæði eftir sín gömlu og góðu skáld. Þannig tala þeir þrótt og þor í þjóðina. Þjóðin má ekki bregðast fortíð sinni. Það eru þessi sterku lífrænu tengsli við fortíðina, trygðin við þær hugsjónir, sem forfeðurnir börðust fyrir og helguðu með blóði sínu, sem eiga sinn þátt í, að veita Bretum á þessum ægilegu reynslustundum, þetta þrek, þessa festu, þessa ró, sem vakið hefir aðdáun alls heimsins.

Eg hlustaði á brezkan útvarpsþul um daginn. Hann var að tala um Ísland og Íslendinga og fór lofsamlegum orðum um menningarstig þjóðarinnar. Hann sagði meðal annars: "Bretar byggja eyland og því hefir verið haldið fram að hver brezkur einstaklingur sé í raun og veru eyland út af fyrir sig. Íslendingar byggja líka eyland og sérhver Íslendingur er líka eyland út af fyrir sig." Ef að það er rétt að okkar einstaklingshyggja sé á eins háu stigi og manna af brezkum stofni, þá er engin hætta á því að við verðum eins og eðlutegundin, sem breytir litum samkvæmt umhverfinu og að við týnum sjálfum okkur.

Í bæklingi, sem upplýsingaskrifstofa ríkisstjórnarinnar gaf út í sumar og heitir "Canadians All" stendur þetta: "Einnig í Canada þýðir ekki að allir séu eins og steyptir í sama móti." "Því landi, þar sem allir tala sama tungumál, sækja sömu kirkju, hafa sömu

skoðanir um öll mikilsvarðandi málefni, því landi er alvarlega hætt við svefnsýki." Rit þetta er hvöt til hinna ýmsu þjóðflokka sem þetta land byggja, að varðveita þjóðernissérkenni sín. Vissulega yrði Canada þjóðin svipsljó, litlaus og andlega snauðari, ef meir en helmingur þjóðarinnar, þeir sem ekki eru af brezkum stofni, gleymdi fortíð sinni, ætti enga sögu nema þessa stuttu sögu hér, ætti engar bókmentir að baki, enga mikla menn til þess að vitna í, og enga feðratungu.

Fyrir nokkrum árum tók eg að mér skólakenslu í héraði þar sem fólk af mörgum þjóðflokkum bjó. Fyrsta morguninn þegar eg athugaði andlit og skráði nöfn nemendanna, sá eg að þarna voru samankomnir fulltrúar frá 7 þjóðflokkum: 2 Hollendingar, 4 Englendingar, 1 skozk telpa; lítill Úkraníu hnokki, 3 drengir frá Czecho-Slovakia, 1 Þjóðverji og 4 pólskar stúlkur. Mér datt nú í hug að við myndum kynnast fljótar og það myndi auka skilning og samúð á meðal okkar, ef við byrjuðum skólaárið með því að athuga landabréf Evrópu, og börnin bentu á staðina þaðan sem þau voru ættuð, og við ræddum svo lítillega um þessi 7 lönd, og hvað hver þessara þjóða hefði lagt til heimsmenningarinnar. Þetta hugði eg myndi efla heilbrigt sjálfstraust hjá börnunum. Þessi kenslustund verður mér altaf minnisstæð. Það stóð eðlilega ekki á þeim börnum, sem voru af brezkum stofni að segja frá sínum ættlöndum og sínu fólki og þjóðarmetnaðurinn speglaði sig í litlu andlitunum þeirra, enda standa þau börn bezt að vígi, því þeirra þjóðarsaga er kend svo ítarlega í skólunum á þeirra eigin feðratungu. Hollenzku drengirnir báru líka höfuðin hátt þegar við ræddum um Holland og sögðu okkur margt um landið. Þeir vissu líka um hinn frábæra lærdómsmann, Erasmus; listmálarann mikla Rembrandt og fleiri. Það jók auðsjáanlega sjálfsvirðingu þessara drengja að vita að þeir áttu slíka menn að baki sér og það jók ósjálfrátt virðingu mína fyrir þeim, heimili þeirra og þjóð, að þeir kunnu að meta það. Á hinn bóginn voru sum hin börnin ekki eins upplitsdjörf. Þau gátu ekki eða vildu ekki segja mér um uppruna sinn, og sum sögðu aðeins: "I am a Canadian." Já, vissulega voru þau öll canadiskir drengir og stúlkur, og mér sem kennara þeirra bar umfram alt að innræta hjá þeim ást og virðingu fyrir Canada, okkar eigin landi; kenna þeim enskuna, sem hlýtur að vera okkar móðurmál, sem hér erum fædd, í stuttu máli, kenna þeim alt það, sem gæti stuðlað að því að gera þau sem bezta borgara okkar lands. En ef þau áttu að ná þeim þroska, sem þeim var áskapaður, þá máttu þau ekki afneita þjóðerni sínu; þau máttu ekki missa þann styrk, sem þjóðernisræturnar veita einstaklingnum; þau máttu ekki tapa hinu andlega samneyti við sína eigin fortíð, sem veitir dýpt og fegurð inn í lífið, því eins og próf. Watson Kirkconnell kemst að orði í bókinni Canadian Overtones": "There

is nothing as shallow and sterile as the man who denies his own ancestry." Mér fanst því að eg væri aðeins að rækja skyldur mínar við þessi börn þegar eg seinna reyndi eftir því sem tími gafst að fræða þau um lönd og sögu feðra þeirra og um þá menn af þeirra þjóðflokki sem skarað höfðu fram úr á einhverjum sviðum. Þannig óx þeim sjálfstraust og sjálfsvirðing sem öllum mönnum er nauðsynleg. Eg gat auðvitað ekki frætt þau um feðratungu þeirra og bókmentir. Þær skyldur urðu foreldrar þeirra að leysa af hendi, ef þeim þóknaðist að gera það.

Varast skyldu þó allir að fordæma eða ásaka foreldra um vanrækslu í þessum efnum, því erfiðleikarnir eru miklir, þótt langt sé frá að þeir séu óyfirstíganlegir. Sennilega munu flestir vesturíslenzkir foreldrar æskja þess að börn þeirra verði aðnjótandi okkar íslenzka menningararfs en umhverfið, annir og aðrir erfiðleikar hafa borið þessa ósk margra hverra ofurliði og því aðeins að við könnumst við mótstöðuöflin og sýnum samúðarríkan skilning á baráttu foreldranna, getum við veitt þeim nokkurn styrk.

Börnin sækja skólana alla daga nema laugardaga og sunnudaga. Þegar þau koma heim þurfa þau ef til vill að lesa heima eða annast önnur störf, en á þeim tíma, sem þau eru í skóla heyra þau aldrei íslenzkt orð né nokkuð um íslenzk mál. Sérstaklega er erfitt að beina huga þeirra að þessum efnum í hinu drekkjandi andrúmslofti í bæjunum þar sem hin mörgu skemtanatæki trufla og dreifa hugsuninni. En ef viljinn er stöðugur, opnast oftast einhver leið til þess að koma því í framkvæmd, sem maður óskar eftir. Alt það, sem nokkurs er virði krefst baráttu.

Auðveldasta aðferðin að kenna börnunum íslenzka tungu er auðsjáanlega sú, að foreldrarnir ásetji sér að tala íslenzku eins oft og því verður við komið á heimilunum og við börnin. Þá væri óhjákvæmilegt að þau lærðu að sklija málið. Fyrst eftir að Íslendingar komu til þessa lands töluðu margir foreldrar altaf ensku á heimilunum, af því að þau voru sjálf að læra þá tungu. Nú gerist þess ekki þörf. Ef svo foreldrarnir útskýrðu fyrir börnunum göfgi íslenzkrar tungu, þessa klasskiska máls, einu lifandi forntungu Norðurálfunnar, eitt af stofnmálum enskunnar, tungu, sem á "orð yfir alt, sem er hugsað á jörðu," sennilega myndi þá vakna nokkur áhugi hjá börnunum að læra að tala hana og lesa. Þá er næst að útvega þeim námsbækur miðaðar við þarfir vestur-íslenzkra unglinga. Því miður er skortur á slíkum bókum og væri æskilegt að þeir, sem beita sér fyrir íslenzkum þjóðræknismálum gerðu alvarlega gangskör að því að bæta úr þessari brýnu þörf. Íslenzkir laugardagsskólar, kensla íslenzkra söngva og samkepni í framsögn íslenzkra ljóða, alt þetta stuðlar að því að vekja áhuga hjá börnunum. Að efla til tveggja vikna námskeiða á sumrin, þegar börnin

eru ekki bundin við alþýðuskólana myndi og hafa heillavænleg áhrif.

Þá er stór hópur af ungu og íslenzku fólki, sem ekki hefir átt kost á að læra íslenzku fyrir þær ástæður sem eg mintist á áður. Þegar þetta unga fólk hefir lokið skólanámi sínu og hefir meiri tíma til umráða finnur margt af því sterka hvöt hjá sér til þess að afla sér þekkingar um sögu ættlands síns og bókmentir þess, og nú í dag er einmitt tækifæri til þess að vekja og efla þennan áhuga hjá ungum Vestur-Íslendingum. Ísland hefir færst nær þeim, það er á hvers manns munni. Hinir sögulegu viðburðir síðustu mánaða hafa varpað nýju ljósi á ættland þeirra. Flest það, sem ritað hefir verið um landið og þjóðina hefir verið vingjarnlegt og lýst virðingu og jafnvel aðdáun fyrir þjóðinni og menningu hennar. Íslendingar í Vesturvegi hafa og unnið sér mikið til frægðar og frama þetta ár. Í fyrsta skifti í sögunni skipar nú Íslendingur ráðherrasess í ríkisstjórn Canada, þrír Íslendingar ná sæti á fylkisþingi Manitoba; íslenzk kona nær hámarki á sviði sönglistarinnar. Sannarlega hefir þetta ár verið viðburðaríkt í sögu Íslendinga, enda hefir skapast nýr áhugi fyrir íslenzkum málum meðal yngri kynslóðarinnar.

Markviss þjóðræknisstarfsemi væri það, að stuðla að því að þetta unga fólk, hvort sem það talar íslenzku eða ekki, fengi tækifæri til þess að fullnægja þekkingarþrá sinni um Ísland og menningu þess. Væri mögulegt að fá fyrirlesara og stofna til námskeiða um þessi efni, þó ekki væri nema einn eða tveir fyrirlestrar á mánuði? Væri mögulegt að stofna handbær bókasöfn, sem hefðu að geyma bækur á enskri tungu um Ísland og bókmentir þess og þýðingar á íslenzkum listaverkum?

Ef til vill fengi þá sumt af þessu unga fólki löngun til þess að læra íslenzkuna upp á eigin spýtur. Þótt fólk sé komið af skólaaldri, þá er það engin ástæða fyrir því, að það geti ekki lært. Eg stundaði fyrir nokkrum árum tímakenslu í Reykjavík. Flestir nemendurnir voru eldri en 18 ára. Elzti nemandinn var um fimtugt. Íslendingum veitist létt að læra tungumál. Ekki er óhugsanlegt að eitthvað af þeim eiginleika hafi gengið í arf til okkar Vestur-Íslendinga.

Í þjóðræknismálum okkar er margt og mikið hægt að gera, ef við höfum svolítinn kjark og traust á sjálfum okkur. Vantraustið er sá óvinur sem við verðum að reka á flótta, hvort sem það birtist hjá okkur sjálfum eða öðrum. Við verðum að hætta að telja sjálfum okkur trú um að við séum að deyja, að íslenzkan sé að deyja, að íslenzk kirkja sé að deyja, að íslenzkur félagsskapur sé að deyja.

Allir kannast við hina svonefndu fimtu fylkingu, fylkingu, sem

veikir ríkið innan að frá með margvíslegri áróðursstarfsemi. Ein aðferð hennar er sú að eyðileggja trúna á lífið, að telja mönnum trú um hrörnun eða jafnvel dauða vissra hugsjóna. Einræðisríkin hafa varið auð fjár til þess að koma því inn í huga þegna lýðræðisríkjanna, að lýðræðisskipulagið sé úrelt og dauðadæmt. Mesta hættan liggur í því að margir gerast óafvitandi verkfæri þessara tortímingarafla og beita, í mesta sakleysi, þessum vopnum gegn sjálfum sér og sínu eigin ríki. Þessi aðferð er sérstaklega skæð, ef um einhvern veikleika er að ræða innan þjóðfélagsins eða félagsins, sem í hlut á, því hægt er að beita þessu vopni með sama árangri gegn smærri félögum og jafnvel einstaklingum. Setjum svo að eg hitti vinkonu mína og mér sýndist hún föl og veikluleg. Ímyndið ykkur hvaða áhrif það myndi hafa á heilsufar hennar, ef eg færi að útlista fyrir henni hvað hún liti illa út og reyndi svo að sannfæra hana um það, að hún ætti skamt eftir ólifað. Þeir, sem íslenzku og íslenzkum málum unna skyldu því varast að telja sjálfum sér og öðrum trú um að við séum að deyja, í þjóðernislegum skilningi.

Það, sem eg hefi reynt að draga fram í dagsljósið í þessu erindi mínu, get eg bezt skýrt í stuttu máli með því að endurtaka ummæli úr ritstjórnargrein Lögbergs 16. sept., 1937, sem voru endurprentuð í grein eftir Dr. Sigurð Nordal í Tímariti Þjóðræknisfélagsins, "Framtíð íslenzkrar menningar í Vesturheimi." Þau eru svona:

"Eitt sinn skal hver deyja," stendur þar. "Sérhverjum þeim er til fullvitundar fæðist, er það ljóst, hve órjúfanlegt slíkt lögmál er; það hamlar honum samt ekki frá því að rækja skyldur sínar við lífið, heldur styrkir hann jafnframt miklu fremur í lífsbaráttunni:

Enginn fær mig ofan í jörð
áður en eg er dauður.

Hver helzt sem þau kunna að verða, þjóðernisörlögin, er bíða vor í þessu landi, þá skuldum vér það uppruna vorum og ætt að berjast fyrir sögulegri og menningarlegri tilveru vorri eins og sæmir ósýktum afkomendum hins glæsilega norræna kynstofns."



# SÉÐ OG HEYRT

Svo sem tvær mílur fyrir norðan bæinn Gimli er Canadian Sunday School Mission Camp í skógarrjóðri rétt á vatnsbakkanum. Þennan stað leigði Bandalag lúterskra kvenna í tíu daga, 28. júlí til 8. ágúst síðastl., og hélt þar uppi kristindómsfræðslu fyrir ungt fólk af íslenzku bergi brotið. Hið sama hefir B.L.K. gert tvö undanfarin sumur með mjög góðum árangri, að því er eg fæ bezt skilið. Eg var þarna í átta daga, ekki sem kennari eða lærisveinn eða starfsmaður á nokkurn hátt, bara sem gestur og áhorfandi. Vildi eg gjarnan fara fáeinum orðum um það, sem eg sá og heyrði í þessum "camp" þarna niður við vatnið.

Þessi staður er örskamt frá alfaravegi, en sézt þó ekki af veginum, og þegar maður kemur ofan undir vatnsbakkann beygir maður til hægri og kemur þá inn í skógarrjóður, stór og vel gróinn grasflötur, sem vel mætti nefnast tún, en skógur á þrjár hliðar og Winnipegvatn á þá fjórðu. Nokkur æði stór tré standa þar á grasfletinum svo maður getur ávalt setið í skugga trjánna ef manni kann að þykja sólarhitinn heldur mikill. Þetta er einstaklega fallegur og friðsæll blettur og maður fer strax að una sér þar vel. Manni finst að þarna hafi maður fundið "sólskinsblett í heiði" og það getur naumast hjá því farið, að þeir sem þar dvelja, þó ekki sé nema skamma hríð, komi þar auga á hina miklu fegurð Sléttulandsins, sem flestir Íslendingar virðast þurfa svo afar langan tíma til að sjá og skilja. Það er ekki nóg að sjá nytsemi síns eigin lands, maður þarf að sjá og njóta fegurðar þess líka. Og sléttan á líka áreiðanlega mikla náttúrufegurð að geyma.

Umhverfis grasflötinn, út við skógarrendurnar, eru margar timburbyggingar, bara einfaldar, en allar úr góðu efni og vel bygðar, svefnskáli fyrir drengi og einir tveir fyrir stúlkur, því kvenfólkið er ávalt fleira þegar um kristindómsmál er að ræða, og einn fyrir konur, sem þar hafa ýmsum störfum að gegna. Þá eru þrjú smáhýsi og er eitt þeirra fyrir þá, sem kynnu að meiða sig eða verða eitthvað lasnir og þar er hjúkrunarkonan. Í þetta sinn var þar samt engin hjúkrunarkona, en þar voru tveir læknar, sem eg skal síðar minnast. Annað húsið er víst ætlað gestum og prestum, en sumir þeirra sváfu þó í drengjaskálanum Þá er þarna stórt samkomuhús með ræðupalli og tveimur hljóðfærum (orgel og píanó). Síðast, en ekki sízt, ber að nefna stóran og bjartan borðsal með sambygðu eldhúsi og brunnhús er þar rétt hjá og þar er nóg af ágætu drykkjarvatni. Í þessum borðsal voru framreiddar þrjár ágætar máltíðir á hverjum degi og reyndar talsvert fleiri, því oft

voru nú einhverjar aukamáltíðir, eða þá molakaffi, sem er eitt af því, sem Íslendingar mega aldrei án vera. Eg er viss um að allir, sem þarna höfðu eitthvert verk að vinna, hafi gert það ágætlega, en enginn betur en matreiðslukonurnar. Þær voru tvær, Miss Petrea Jónasson frá Winnipeg og Miss Rúna Jónasson frá Víðir. Ungu stúlkurnar báru á borð til skiftis, undir umsjón Mrs. Finnur Johnson, og fórst það yfirleitt mjög vel. Þá átta daga, sem eg dvaldi þarna í þetta sinn var eg bara aðgerðalaus áhorfandi, nema í borðsalnum. Eg vona að það verði ekki talið neitt karlaraup þó eg þykist hafa verið þar nokurn veginn liðtækur og ekki staðið hinum yngri langt að baki.

Hvað var annars verið að gera þarna? munu margir spyrja, að eg hygg. Það er áður að því vikið, að það var verið að veita íslenzkum og lúterskum unglingum fræðslu í kristnum fræðum, sérstaklega með því augnamiði, að þetta unga fólk mætti verða betur hæft til að verða kennarar á sunnudagsskólum og leiðtogar í kristilegu félagslífi, hvar sem þeir kynnu að verða í framtíðinni. Þetta er ekki gert með bóklegri fræðslu aðeins, heldur líka að kenna þeim a vera í margmenni og taka þátt í frjálsu og glöðu félagslífi, þar sem góðrar reglu er vel gætt, án als þess sem með nokkru móti gæti kallast harðstjórn. Þarna er líka íslenzkum unglingum víðsvegar að gefið tækifæri til að kynnast. Úr slíkum kunningsskap getur oft orðið vinátta, sem endist alla æfina og getur veitt hlutaðeigendum mikla blessun og einnig orðið til mikils gagns þeim kristilegu og félagslegu áhugamálum, sem vinirnir eiga sameiginleg.

Starfsfólkið var æði margt, auk þeirra kvenna, sem þegar er getið. Er þá fyrst að nefna séra E. H. Fáfnis, sem var skólastjóri og stundaði það verk með reglusemi og lipurð og fórst það ágætlega. Hann stýrði öllum samkomum og kenslustundum. Þeir, sem aðallega kendu voru þeir séra V. J. Eylands, séra S. Ólafsson, séra Carl J. Olson og séra B. A. Bjarnason. Einnig komu þarna og fluttu erindi þeir Mr. Stefán Hanson frá Winnipeg og Mr. Tryggvi Oleson frá Glenboro. Einnig var þar í tvo daga prestur frá U.L.C.A., Rev. Gatz, sem hefir það verk á hendi fyrir hið stóra kirkjusamband, að ferðast milli samskonar staða og hér var um að ræða og leiðbeina þeim, sem þar eiga hlut að máli. Hann talaði mikið, en þó ekki of mikið því hann talar vel og er hinn viðkynnilegasti maður. Öll kensla fór fram á ensku. Forseti B.L.K., Mrs. S. Ólafsson, var þarna nærri altaf. Hygg eg að hún eigi mestan þáttinn í því að koma þessari starfsemi félagsins á fót og mjög mikinn þátt í því hve vel hefir tekist. Einnig Mrs. H. F. Danielson sem hafði alla bókfærslu á hendi og skrásetningu og tók á móti skildingunum. Þá höfðu þær umsjón með svefnskálum stúlknanna, Mrs. S. Sigurgeirsson og Miss Kristín Skúlason, en séra S.

Ólafsson með svefnskála piltanna. Hann gerði líka margt fleira og fanst mér hann allra manna starfsamastur. Miss Bergþóra Einarsson leiðbeindi við útileiki og Miss Olive Oddleifson lék á hljóðfærin. Hún virðist vel fær í öllu, sem þar að lýtur og gengur að því örugglega og óhikað og mistekst aldrei. Eg held hún geti náð fögrum tónum úr næstum hvaða hljóðfæri sem er, jafnvel þó hljóðfærin séu ekki nærri góð. Mér fanst hún þarna alveg ómissandi.

Á hverju kveldi voru eitthvað haft til skemtunar og fróðleiks í samkomusalnum og tók unga fólkið aðallega þátt í því með söng, hljóðfæraslætti og framsögn. Fanst mér ýmsum þeirra farast þetta ágætlega. Sumar ungu stúlkurnar fóru prýðisvel með íslenzk ljóð, eins og t. d. hún Beatrice Ólafson og Louisa Eiríkson. Skólastjórinn söng oft einsöngva. Mr. A. S. Bardal kom eitt kveldið og flutti langt erindi og sagði okkur að það væri vont fyrir okkur að drekka brennivín og færði að því mörg rök. Svo sýndi hann okkur margar myndir, frá íslandi aðallega og skýrði þær, og þótti góð skemtun.

Það brást aldrei, að það voru einhverjar góðgerðir til reiðu í borðsalnum eftir hverja kveldskemtun.

Sunnudaginn 2. ágúst var guðsþjónusta haldin í samkomusalnum. Var þar allmargt fólk samankomið frá ýmsum stöðum í Nýja íslandi og frá Winnipeg. Séra E. H. Fáfnis stýrði guðsþjónustunni, en séra V. J. Eylands prédikaði og flutti ágæta prédikun. Það eru nú reyndar engar nýjar fréttir fyrir þá mörgu, sem hafa heyrt hann, en eg hefi sjaldan heyrt eins miklu lofsorði lokið á eina prédikun sem þessa.

Þess er áður getið, að þarna voru tveir læknar, Dr. Friðgeir Ólason og Dr. Sigrún Ólason, kona hans. Verður því ekki annað sagt, en vel hafi verið séð fyrir læknishjálp. En það vildi svo vel til, að ekki þurfti mikið á læknishjálp að halda. Heilsufar fólksins var gott og matarlystin ágæt, og enginn meiddist svo nokkru næmi. Þessi hjón eru fyrir skömmu komin frá íslandi og dvelja hér um stund til framhaldsnáms í sinni fræðigrein. Eg hafði sérstaklega mikla ánægju af samverunni með þessum gáfuðu og skemtilegu ungu hjónum, sem tala við mann íslenzku — ekki "vestur-íslenzku," þetta mál, sem við Vestur-íslendingar höfum búið til sjálfir og eigum út af fyrir okkur.

Um langt skeið hefi eg ekki daglega umgengist börn og unglinga, en í þetta sinn reyndi eg að kynnast unga fólkinu, sem þarna var, eitthvað um fimmtíu, og sem flest mun hafa verið á aldrinum frá 14 til 20 ára, einstaka eitthvað lítið eitt eldra eða yngra. Sú kynning var mér sérstaklega ánægjuleg, þó lítil væri.

Mér fanst eg finna þarna svo undur vel "hvað æskan er ljúf og fögur" og glöð og góð. Maður getur bygt sér heilar skýjaborgir af vonum um gagnlega og glæsilega framtíð þess. Og alt sem þarna var um hönd haft, miðaði að því, að þessar góðu vonir mættu rætast. Það þarf svo sem enga dygð til þess, að bera hlýjan hug til æskunnar. Það er ekki hægt að komast hjá því. Gott er það, að finna hlýhug annara til sín, en enn betra að geta sjálfur borið einlæglega hlýjan hug til annara.

Eg var mjög vel ánægður með dvöl mína þarna í skógarrjóðrinu við vatnið, og eg varð ekki annars var, en alt hitt fólkið, yngra og eldra, væri það líka.

*F. J.*

---

# Íslenzk hljómfræði og þróun hennar

*Fyrirlestur eftir Björgu Violet Ísfeld*

*flutttur á fjórða tveggja ára þingi hinna sameinuðu hljómfræðiskennara Canada, í Empress hótelinu í Victoria, B.C. 10. júlí 1941.*

Mér er það mikið gleðiefni, að vera stödd hér í dag og tala um íslenzka hljómfræði. Eg tel mér það sérstakan heiður að hafa tækifæri til þess að varpa ljósi á þessa hlið íslenzkrar menningar; því mér er það fyllilega ljóst að yfir Íslandi og Íslendingum hvílir skuggi vanþekkingarinnar, að því er Canada og Bandaríkin snertir; í þeim löndum er Ísland minna þekt en æskilegt væri.

Það virðist ótrúlegt að þjóðin, sem ól Leif Eiríksson — manninn, sem fann Vesturheim árið 1000 — skuli hafa verið svo að segja ókunn íbúum þessarar álfu í 940 ár. Eg segi 940 ár sökum þess að það var ekki fyr en í fyrra (1940), þegar Bretar sendu lið í því skyni að hernema Ísland í verndarskyni gegn Þjóðverjum, sem ráðist höfðu inn í Danmörku og Noreg — ekki fyr en þá að þjóðin í þessu mikla landi fór að láta sig þekkingu á Íslendingum nokkru varða. Íslandi hefir því verið veitt eftirtekt sökum þess að það er Vesturheimi mikilsvirði; annars hefði sú eftirtekt ekki átt sér stað. Íslendingum hefði auðvitað verið það kærra að kynnast umheiminum sem sú þjóð, er stofnaði lýðstjórn fyrir meira en þúsund árum og hefir stöðugt haldið henni síðan. Árið 1930 á þúsund ára afmæli lýðveldisins viðurkendu Englendingar að Ísland væri elzta núverandi lýðveldi — að "Fjallkonan" væri móðir þingbundinnar þjóðstjórnar.

Einnig hefði Ísland mátt vera þekt sem land skáldanna — eins og það er í raun og sannleika. Þegar hnattstaða landsins og það hversu afskekt það hefir verið er tekið til greina, þá er það alls ekki að undra þótt íbúar þess séu næmir fyrir fegurð og hljóðfalli; og þegar það svo bætist við að málið er afarfullkomið, þá er það einnig ofur eðlilegt að þjóðin yrði skáldhneigð — að henni yrði það auðvelt að túlka hugsanir sínar og tilfinningar í þeim búningi, sem málið skapaði henni.

En Íslendingar eru einnig þjóð, sem elskar frelsi, og þeir eru stoltir af því að vera samherjar Breta gegn ofsóknum bæði sjálfra sín vegna og vegna Vesturheims, þar sem þúsundir bræðra þeirra og systra eiga heima.—

Það var fyrst nálægt síðustu aldamótum sem íslenzka þjóðin byrjaði að hagnýta sér hin miklu auðæfi náttúrunnar sem landið geymir. Þá fyrst fór þjóðin að auðgast fjárhagslega. Sökum efnaskorts áttu fæstir landsbúa dýr hljóðfæri fram að þeim tíma; af því leiddi það eðlilega að þeir höfðu ekki tækifæri til þess að þroska hljómfræðisgáfur sínar.

Hljómfræði á Íslandi, eins og í flestum öðrum löndum, byrjaði í kirkjunni. Á meðan þjóðin játaði kaþólska trú var öll hljómfræðismentun einungis bundin við munkana. Var því unnið á móti allri veraldlegri hljómfræðisþekkingu; hún var talin að standa í vegi fyrir sönnum mannlegum þroska.

Það var ekki fyr en eftir miðja sextándu öld að fyrsta sálmabók var prentuð á íslenzku (1589). Fimm árum síðar var prentuð önnur sálmabók að mestu leyti útlendir sálmar. Sú bók kom út í 19 útgáfum á árunum 1594 til 1779, aðeins með örfáum breytingum eða umbótum. Í sjöttu útgáfunni er viðauki eða skýringar um einföldustu tákn, tíma, tónstiga, lykla, hætti o. s. frv. Þessi bók var nefnd "'Grallari" og lögin í henni voru kölluð "gömlu lögin" til aðgreiningar frá nýrri lögum í sálmabók, sem prentuð var 1801 að tilhlutun Magnúsar Stephensens.

Magnús Stephensen hafði dvalið langdvölum í Danmörku og gekkst fyrir því að á Íslandi væru kendir allmargir veraldlegir söngvar, sem vinsælir voru á þeim tíma í Kaupmannahöfn. Þessum söngvum var samt ekki vel tekið á Íslandi; en þó urðu þeir til þess að vekja sönghneigð og hæfileika í þá átt með þjóðinni.

Árið 1812 fæddist sá maður, sem síðar var nefndur faðir hljómfræðinnar á Íslandi. Hann hafði meiri áhrif á þjóðina á því svæði en nokkur annar maður hafði haft upp til þess tíma. Hann hét Pétur Guðjohnsen. Þegar hann lauk stúdentsprófi á Íslandi var hann sendur til Kaupmannahafnar af skólaráði Reykjavíkur til þess að læra uppeldisfræði, í þeim tilgangi að hann yrði skóla-

stjóri í Reykjavík að loknu námi. Guðjohnsen varð afar hrifinn af hljómfræði þeirri, sem hann kyntist í Kaupmannahöfn, og strengdi þess heit að flytja heim til ættjarðar sinnar hina miklu fegurð og þann óþrjótandi andans auð, sem hann sjálfur hafði orðið aðnjótandi. Hann notaði hverja einustu frístund og hvert tækifæri til þess að læra hljómfræði, sérstaklega organspil og söng.

Hann kom heim til Reykjavíkur eftir þriggja ára nám til þess að gerast þar skólastjóri og organleikari í dómkirkjunni. Sex árum síðar varð hann prófessor í hljómfræði við Latínuskólann, sem það ár (1846) hafði verið fluttur frá Bessastöðum til Reykjavíkur, og þar var hljómfræði kend sem aukanámsgrein.

Árið 1854 kom hann opinberlega fram með karlakór, voru það nemendur hans í Latínuskólanum. Var það í fyrsta skifti sem karlakór hafði heyrst á Íslandi. Einn af nemendum hans, sem fram úr skaraði var Jónas Helgason; hann stofnaði blandaðan kór, karlakór verzlunar- og embættismanna og hljómfræðisflokk, er hann skifti í deildir. Hann gaf einnig út margar bækur til þess að efla frekari hljómfræðisþekkingu í landinu. Af þessu leiddi það, að undir lok nítjándu aldarinnar var íslenzka þjóðin glaðvöknuð til meðvitundar um nýjan búning íslenzkra hugsana og tilfinninga — búning hljóms og hljóðs.

Íslendingar hafa æfinlega verið miklir alvörumenn. Það er því engin furða, heldur eðlilegt að þeir leiti sér eins fullkominnar mentunar í hljómfræði og kringumstæður frekast leyfa enda leita þeir sérstaklega í því skyni til beztu staða og stofnana, sem þeir þekkja.

Merkastur þeirra manna, sem fullkomnunar leituðu sér í hljómfræði við erlendar stofnanir, var Sveinbjörn Sveinbjörnsson. Hann var geðshræringa- og tilfinningamaður mikill; han útskrifaðist af Latínuskólanum árið 1868, fór til Skotlands, og þaðan eftir nokkurn tíma til Kaupmannahafnar í Danmörku. Hann stundaði þar hljómfræði og tónfræði í tvö ár, fór síðan aftur til Skotlands og kendi þar um tíma; þaðan fór hann til Þýzkalands og lærði hjá Reincke við hljómfræðsluskólann í Leipzig. Þegar hann hafði lokið námi þar, fór hann á ný til Skotlands og settist þar að til frambúðar. Hann varði mestum hluta starfsæfi sinnar til tónsmíða og hljómleika ferða. Lög hans voru ýmist fyrir einsöngva eða samsöngva, slaghörpu eða hljómsveitir. Sveinbjörnsson samdi inngangslag og innskotssöngva lög fyrir leikrit, sem samið var út af skáldsögunni: "Aumingjarnir" eftir Hall Cain. Meðal hinna þektustu einsöngslaga eftir hann eru: "Valagilsá," "Gröf víkingsins" og "Sverrir konungur."

Lagið, sem hann samdi við lofsöng Matthíasar: "Ó, guð vors lands," sem er þjóðsöngur Íslands, er stórkostlegt og hrífandi og

túlkar trúlega anda þjóðarinnar. Þar fylgist alt að: hið sterka og þróttmikla hljóðfall í tröllslegu bergmáli fossanna; hin djúpa viðkvæmni og hinn háfleygi ákafi þess anda, sem samtímis finnur til veikleika síns og styrkleika, en lýsir fullu trausti á almættinu.

Sveinbjörnsson safnaði íslenzkum þjóðlögum, sem út voru gefin á Skotlandi; þar voru flest verk hans prentuð.

Þegar Danakonungur kom til Íslands árið 1907 samdi Sveinbjörnsson lag honum til heiðurs, sem svo þótti mikið til koma, að hann var sæmdur heiðursmerki fyrir það. Hann var einnig gerður heiðurs-prófessor í hljómfræði við konunglega hljómlistarskólann í Kaupmannahöfn.

Hann dvaldi síðustu ár æfi sinnar á ættjörðinni; hafði landsstjórnin boðið honum heim sem heiðursborgara, og þegar hann dó, sá þjóðin um útför hans í virðingarskyni og viðurkenningar, eins og siður er á Íslandi þegar allra merkustu menn landsins falla frá.

Síðan á dögum Péturs Guðjohnsens hafa fjöldamörg tónskáld og margir hljómfræðingar verið uppi á Íslandi, en tíminn leyfir mér einungis að minnast á örfáa þeirra, sem fram úr hafa skarað. Þeir eru þessir:

Bjarni Þorsteinsson, sem bjó til prentunar þá sálmabók, sem nú er mest um hönd höfð í íslenzku kirkjunni.
Árni Thorsteinsson tónskáld.

Sigfús Einarsson organleikari, söngstjóri og tónskáld. Lag hans við kvæðið: "Draumalandið" er eitt af hinum allra vinsælustu lögum á Íslandi.

Björgvin Guðmundsson, sem mörg ár dvaldi í Canada. Hann las tónfræði við konunglega hljómlistarskólann á Englandi og er nú bæði söngkennari og tónfræðingur á Íslandi, hann er einnig tónskáld.

Sigvaldi Kaldalóns, ef til vill frumlegastur allra íslenzkra tónskálda; hann hefir samið mörg lög undurfögur.

Páll Ísólfson organleikari og tónskáld; hann hlaut verðlaun fyrir lag sitt við hátíðasönginn á þúsund ára hátíðinni 1930.

Pétur Jónsson söngvari.
Eggert Stefánsson söngvari.
Stefano Islandi söngvari.

Haraldur Sigurðsson píanóleikari og kennari við Konunglega hljómlistarskólann í Kaupmannahöfn í Danmörku.

María Markan söngkona, sem ferðast hefir um England, Ástralíu, Þýzkaland og Danmörku; hún hefir nú samið við Metro-

politan söngleikafélagið í New York, þar sem hún byrjar að syngja á komanda hausti.

Miklu fleiri mætti nefna, sem mikil áhrif hafa haft á íslenzku þjóðina í þessari grein, og áhrif þeirra munu fara vaxandi ár frá ári, því tæplega finst íslenzkt heimili án þess að þar sé eitthvað af fólkinu, sem leggur rækt við söng og hljómfræði; hljómlistin er svo að segja ofin inn í alt líf fólksins og tilveru þess.

Hver veit því nema Fjallkonan eigi jafnvel nú einhvern meðal sona sinna, er síðar verði til þess að auðga heim hljómfræðinnar eins og hún hefir átt sonu, sem auðguðu heim bókmentanna — að hún leggi heiminum til: ekki annan Beethoven, Toscanini eða Sibelíus, heldur sinn eiginn son — son Íslands, sem verða megi hlekkur í hinni sívaxandi keðju ódauðlegra snillinga.

---

# ÚR DAGBÓKINNI

Einn þáttur í starfi húsmæðra er sá að gefa gestum tíma sinn, — ekki gestum, sem boðnir hafa verið á sérstakri stundu og sérstakur undirbúningur hefir verið viðhafður til að taka á móti, heldur hinum sem gera manni þá gleði að líta inn á hvaða tíma dags, sem þeim er þægilegast, dvelja litla stund og halda svo áfram leiðar sinnar. Og þá kemur það svo oft í ljós að bezta þjónustan, sem hægt er að veita er sú að *hlusta.* Fáir kæra sig um nokkrar ráðleggingar en margir þrá að lyfta einhverju fargi af huga sínum og eru að leita eftir þeim, sem eru tilbúnir að hlusta.

Í morgun var eg svo lánsöm að geta veitt þá þjónustu. Eg var rétt nýbyrjuð á morgunverkunum, eldri börnin voru farin á skóla, hin yngri voru að leika sér úti í garðinum. — Það var barið á eldhúsdyrnar, hálfhikandi; eg vissi strax að úti fyrir var öldruð kona, sem leit inn til mín af og til. Hvernig hún drap á dyrnar var alveg í samræmi við framkomu hennar — hún var ávalt svo veikluleg og beygð, óafgerandi og óstyrk, en svo dæmalaust fíngerð og falleg. Hún var á að giska um sjötugt, brúkaði dökk gleraugu, sem huldu stóru, brúnu augun, sem sáust aðeins þegar hún tók gleraugun af sér til að fægja þau, og þá fanst manni augun hennar mundu altaf fljóta í tárum, og frá því eg sá hana fyrst vissi eg vel að hún átti einhverja raunasögu, sem hún hafði ekki sagt neinum.

Mér virtist hún venju fremur óstyrk og hikandi þenna morgun. Hún hafði lagt slitinn dökkan silkikjól yfir handlegginn og spurði

mig hvort eg væri í sérstöku annríki — gæti eg hjálpað henni að gera nokkrar breytingar á þessum kjól — hún hefði þurft að brúka hann á morgun — sagðist þurfa að skreppa í burtu — þyrfti að vera við jarðarför. Eftir stutta stund var saumavélin komin undir eldhúsgluggann, því þó eg sé ekki saumakona, treysti eg mér til að gera nauðsynlegar breytingar á svarta silkikjólnum.

Við sátum um stund þegjandi og saumuðum; svo mintist hún hálfhikandi á það að hún kviði fyrir ferðinni daginn eftir, hún hefði ekki komið til borgarinnar í meira en tuttugu ár. "En," bætti hún við, "mér finst eg verði að fara — eg verð að losna við þunga byrði, sem er orðin mér ofurefli, eg hefi borið hana í svo mörg ár — og eini vegurinn er sá að fylgja henni síðasta áfangann."

Eg þagði og skildi ekki við hvað hún átti; eftir nokkra stund spurði eg hvort það væri skyldmenni hennar, sem látist hefði. — "Nei," sagði hún, "við vorum ekkert skyldar, en æskuvinur, um enga vinstúlku hefir mér þótt vænna en hana." — Eg saumaði af kappi og sagði ekki neitt.

Svo byrjaði hún hikandi og dauflega á æfisögu sinni, en gleymdi svo feimni og hræðslu er hún hélt áfram; það var auðheyrt að hún var í fyrsta sinn að draga blæjuna frá þessum viðburðum, sem hún hafði aldrei getað minst á áður. Sagan hennar verður ekki sögð hér né neinstaðar annarsstaðar; hún var henni helgidómur, sem hverfur með henni í gröfina.

Þegar eg hafði lokið verkinu og var að færa hana í kjólinn, gat eg ekki annað en dáðst að hvað fögur hún var. Það var eins og henni hefði aukist kjarkur við að opna huga sinn, svipurinn varð djarfmannlegri og festulegri. Eg dáðist að henni fyrir að hafa kjark til að takast þessa ferð á hendur, til að losna við margra ára kala, sem hafði snúist upp í hatur án þess hún gerði sér fulla grein fyrir — hatur til hennar, sem hafði eyðilagt lífshamingju hennar og sundrað heimili hennar.

Hún kvaddi hugrökk og styrk. Þegar eg horfði á eftir henni var eg að hugsa um hve mikinn aðalssvip margar af okkar eldri, íslenzku konum eiga, hve tignarlega þær hafa borið byrðarnar, sem þeim hafa verið lagðar á herðar. — En eitt hafði eg fastlega ákveðið, eg varð að finna ráð til að fara með henni á morgun, hún mátti ekki fara ein í þessa pílagrímsför sína.



Aðeins einn dagur er liðinn síðan eg hripaði þetta í dagbókina — jarðarfarardagurinn, og áður en eg sofna verð eg að skrifa í fáeinar mínútur.

Það var viðhafnarmikil útför, sem fór fram í stórri enskri kirkju í borginni. Tónar pípuorgelsins voru djúpir og mjúkir, hempuskrýddur söngflokkur söng útfararsálma. Þrumandi rödd prestsins flutti útfararræðu með miklu orðaskrúði en engu efni. Enginn syrgjandi sat hjá kistunni; aðeins fáir voru viðstaddir; nokkrum dýrindis blómakrönzum hafði verið raðað umhverfis kistuna. Mér fanst eg finna til tómleika og auðnar. — Kistan er opnuð, fólkið gengur hljóðlega í kring. Vinkona mín gekk tíguleg og lotningarfull inn ganginn, staðnæmdist í nokkur augnablik og virti fyrir sér ásjónu hennar sem hún kom til að kveðja, list útfararstjórans hafði tekist að gera útlitið undursamlega unglegt, ef til vill ekki ólíkt því sem það hafði verið þegar þær þektust og unnust í æsku. Hrukkótta, þreytta höndin snerti hendurnar, sem voru krosslagðar á brjósti hinnar látnu. Þögul tár runnu niður vanga hennar, hin einu, sem sáust við þessa kveðjuathöfn. Í grafreitnum stóð hún ein eftir við gröfina þegar hinir fáu, sem þangað fóru, höfðu gengið frá; hún gerði krossmark yfir kistunni, svo gengum við þögular út að hliðinu, og keyrðum í sömu þögninni að járnbrautarstöðinni.

Á leiðinni heim reyndi eg ekki til að segja neitt, skildi að eg gat veitt bezta þjónustu með þögninni — hví hafði mér ekki auðnast að fara þessa ferð með henni nokkrum árum fyr? Hver veit nema að hin konan hefði þá lagt sæll upp í ferðina hinztu. Eg var að hugsa um hve margar og mismunandi þær byrðar eru, sem samferðafólkið er að örmagnast undir, en við erum of sljó til að skilja og getum ekkert gert til að hjálpa. — Hugsanir mínar voru sundurlausar og hvarflandi og eg sá að hugur hennar, sem hjá mér sat var langt í burtu. Loks rauf hún þögnina og sagði: "Það tekur okkur langan tíma að læra það, að enginn getur unnið okkur mein nema við sjálf, þvílík heimska að láta hatrið ná haldi á huga sínum, það eitrar svo út frá sér. Nú er eg svo sæl, því mér finst eg beri engan kala til nokkurs,—elska alla." Eg fann engin orð, sem við áttu aðeins tók utanum höndina þreyttu, sem hún hafði lagt í kjöltu mína.

Lestin var stönzuð — maðurinn minn var kominn upp í vagnin til að hjálpa okkur út.—

*I. J. O.*



# Ágrip af sögu kvenfélags fyrsta lúterskra safnaðar

Efst í huga þeirra íslenzku kvenna, sem hér tóku sér bólfestu á frumbýlingsárunum, var hugsunin um það, að hjálpa öðrum. Því var það, að þær svo snemma fóru að mynda félög — félög, sem ávalt miðuðu að því að hjálpa og líkna. Þær höfðu líka þau einkenni í ríkum mæli, sem til þess þarf að geta liðsint og stutt bæði menn og málefni. Þó félagsstarfsemin væri þeim nýjung á þeim árum, lærðu þær fljótt að "margar hendur vinna létt verk." Þær sáu, að í samvinnu á kristilegum grundvelli gafst þeim tækifæri til að sýna í verkinu trú sína. Fleiri dygðir voru framkallaðar, kærleiki, ósérplægni, fórnfýsi, dugnaður, góðvild, samúð. Ekki gat hver og ein verið fyrirmynd, en allar gátu þær sameiginlega lagt til sinn skerf í þarfir heildarinnar. Á þessum grundvelli voru fyrstu kirkju-kvenfélögin mynduð og var markmiðið ætíð: að hjálpa og líkna.

Hið elzta, Víkur eða Mountain kvenfélag, er nú búið að starfa í fimmtíu og átta ár og var saga þess féags birt í næst-síðustu Árdís. Það var stofnsett árið 1883, en árið 1885 voru tvö félög mynduð, annað í Argyle, hitt í Garðar bygð; starfa þessi félög enn í dag, og hefir blessun hvílt yfir verki þeirra. Árið 1886 voru fjögur félög mynduð: í Mikley, Riverton (þá Icelandic River), Akra og Winnipeg. Það er saga hins síðastnefnda, Kvenfélags Fyrsta lút. safnaðar í Winnipeg, sem nú skal rifja upp.

Kvenfélag Fyrsta lút. safnaðar var myndað 5. ágúst 1886, og er því fimmtíu og fimm ára gamalt nú í sumar. Félagið var stofnsett af frú Láru Bjarnason og var hún í nærfelt þrjátíu ár forseti þess. Hún var góður leiðtogi og undir hennar forystu söfnuðust saman konur, sem unnu kristindómsmálefninu. Hún leyndi því aldrei að á þeim grundvelli væri starfsemin bygð, og hún reyndi af öllum sínum kröftum að hjálpa konum til að víkka sinn andlega sjóndeildarhring, um leið og þær unnu sín hversdagslegu störf bæði fyrir heimili sín og fyrir kirkju sína, því eðlilega varð starfið, þegar að því kom, að afla fjár til að styðja safnaðarstarfsemi, aðallega það, sem þær kunnu bezt, að sauma og matreiða, að safna fólki saman á samkomur, þar sem aðal skemtunin byrjaði oft þegar skemti skránni var lokið og vinir og kunningjar gátu mæzt og skrafað saman og drukkið kaffi hver með öðrum.

Í fyrstunni var kvenfélagsstarfið nokkuð umsvifalítið, því lífið var einfaldara þá en það er nú. Þó kom það fljótt í ljós að þær vildu, auk vinnu sinnar til að hjálpa söfnuðinum, rétta líknandi

hönd þeim, sem þess þurftu við. Þessi starfsemi byrjaði fyrst með því, að nefnd var kosin um jólaleytið til að gleðja fátæklinga, sem höfðu við ýmsa erfiðleika að stríða. Jókst þetta starf ár frá ári unz jóla-nefndin 1903 fann sig knúða til að leggja til í skýrslu sinni, að standandi nefnd sé kosin til að hafa þetta líkarstarf á hendi. Árangur skýrslunnar varð sá, að séra Jóni Bjarnasyni var boðið á kvenfélagsfund í febrúar 1904 og hann beðinn að útnefna konur sem djákna, til að starfa með þeim tveimur karl-djáknum er þegar höfðu verið kosnir á safnaðarfundi. Útnefndi hann þessar fimm konur sem fyrstu kvendjákna safnaðarins: Mrs. H. Olson, Mrs. J. Júlíus, Mrs. K. Albert, Mrs. Ásdísi Hinrikson, Mrs. O. Stephensen, og var sú útnefning staðfest af fundinum. Þannig var kvenfélagið frumkvöðull að þeirri öflugu djáknastarfsemi, sem nú þjónar í söfnuðinum. Eins og hinn litli hópur postula Jesú höfðu sinn líknar-sjóð. Í sambandi við líknarstarfsemi félagsins á fyrri árum má minnast þess, að nokkrum sinnum var líknarstarf á Íslandi styrkt með fjárframlögum. Einnig var Jóns Bjarnasonar skóli í fjölda mörg ár styrktur með árlegum peningagjöfum í minningu um afmæli séra Jóns Bjarnasonar. Aðrir sjóðir, sem hafa notið styrks, eru: trúboðssjóðirnir, djáknasjóðurinn og "Samverjinn," líknarsjóður djáknanna.

Hið fyrsta kirkjulega heimili safnaðarins var bygt haustið 1887 og í það flutt skömmu fyrir þau jól. Það vakna margar endurminningar þegar þær, sem lengst hafa tilheyrt félaginu, hugsa til þeirrar tíðar. Dygðir eru engin nýjung og þær voru þá einnig til. Safnaðarmenn lögðu mikið á sig þá eins og nú. Fátækir smiðir gáfu stórupphæðir í vinnu í stað peninga og flestir sýndu fórnfýsi á einn eður annan hátt. Kvenfélagið gaf prédikunarstól, sem þær létu smíða og skírnar- og altarisgögn í hina nýju kirkju. Er óhætt að fullyrða, að skírnar- og altarisgögn eru ávalt hin fyrsta gjöf hvers kvenfélags til kirkju sinnar. — Og gleðin var mikil þau fyrstu jól í hinni nýju kirkju.

En öllu miðar áfram, og sá tími kom, að farið var að tala um stærri og betri kirkju, alveg eins og Íslendingar voru smámsaman að bæta sín húsakynni. Gamla kirkjan — því við, sem höfðum í hana flutt '87, kölluðum hana það — var kvödd einn góðan veðurdag, og hin veglega kirkja, sem söfnuðurinn hafði reist sér á horninu á Sherbrooke og Bannatyne varð hið nýja heimili Fyrsta lút. safnaðar. Í þá kirkju gaf kvenfélagið vönduð og dýr sæti, prédikunarstól og píanó. Og þar átti kvenfélagið margar glaðar stundir með söfnuðinum, því söfnuður og kvenfélag er óaðskiljanlegt. Þó við lítum oft með söknuði til hins liðna tíma, þá er lífið þannig, að við verðum að feta áfram — áfram. Síðasti áfanginn var kirkjan á Victor St., sem nú er heimili safnaðarins. Og í henni, eins og hinum, eru geymdar margar endurminningar, sumar glaðar,

Einhvern tíma síðar meir, þegar nútíðin verður orðin að móðu-kendri fortíð, gæti eg trúað, að einhverri konu, af íslenzkum stofni fyndist æfintýrablær yfir Jóns Sigurðssonar félaginu, og henni yrði það ef til vill að umhugsunarefni, hversu vel og drengilega íslenzku konurnar brugðust við, á rauna og reynslu tímabilum í æfi þessara ungu þjóðar, þegar stríð og styrjaldir sóttu að henni. Henni hlýna þá kannske um hjartaræturnar á svipaðan hátt og mér gerði fyri mörgum árum síðan, þegar ein af stofnendum "Hins ísl. kvenfélag í Winnipeg," gömul, gáfuð landnámskona, sagði mér frá ýmsu starfi þess hér endur fyrir löngu.

Megi Jóns Sigurðssonar félagið bera gæfu til að starfa vel o starfa lengi. Megi það verða trútt íslenzku þjóðerni og tungu — og megi það muna sitt göfuga nafn þannig, að starfa ætíð í þarfi mannúðar og mannréttinda.

*Guðrún H. Finnsdóttir.*

---

# MINNINGAR

## STEINUNN JÓNSDÓTTIR PÉTURSSON

*Inngengin til eilífs lífs*
*19. janúar 1941, 96 ára að aldri.*

Blessun, bænir og þakkir,
blíðasta móðir,
umvefja andann þinn fagra
við endamörk lífsins.
Sælt er sigrandi að hverfa
frá sorgum og þrautum
umkringd af ástvinum horfnum
í alsælu dvelja.

Verður ljúft að vakna
um vor á ljóssins ströndu,
eftir svefninn síðsta,
þar sæl þú okkar bíður
með umhyggju og ástúð
eins og jafnan fyrrum.
Hópurinn þinn hlakkar
heim til þín að snúa.

*Ingibjörg J. Ólafsson.*



STEINUNN JÓNSDÓTTIR PÉTURSSON

## STEFANÍA BENSON

(9. september, 1849 — 22. október, 1940)

Mynd og minning þessarar góðu og vel kristnu starfskonu á skilið að geymd verði í virðulegu ársriti Bandalags lúterskra kvenna. Hefi eg verið beðinn að rita nokkur minningarorð um frú Stefaníu, og er mér það ljúft. Var eg prestur hennar í 28 ár og kyntist henni að öllu góðu. Var hún ekki aðeins góð heim að sækja, en hún var líka vakin og sofin við að styðja málefni kirkju og kristindóms. Hún var í tölu þeirra góðu kvenna, sem tóku sig saman um að sofna félag söfnuðinum til stuðnings, sem öll árin síðan hefir verið stólpi safnaðarins. Þegar þetta varð, var frú Stefanía nýkomin frá Íslandi með manni sínum og börnum. Mætti virðast að hún hafi þá haft nógu mörgu að sinna heima hjá sér á frumbýlingsárunum. Sýnir þetta bezt að annirnar við heimastörfin kæfðu ekki löngun hennar og vilja til þess að eiga þátt í starfi kristinnar kirkju, enda hafði hún verið undir áhrifum eins hins mesta og bezta kennimanns á Íslandi, séra Halldórs prófasts Jónssonar á Hofi í Vopnafirði. Hafði eg tækifæri, meðan eg þjónaði söfnuðunum í Minnesota, að kynnast áhrifum hans þar sem svo margir Vopnfirðingar voru þar saman komnir. Frú Stefanía var einlæg kirkjukona og trúföst. Ekki hefði henni getað komið til hugar að segja sig úr söfnuði, þó hún hefði orðið í minnihluta, því hjarta hennar var til æfiloka í kristinni kirkju. *Þar sem fjársjóður yðar er, þar er hjarta yðar,* sagði Drottinn Jesús. Starfssystur hennar sýndu að þær kunnu að meta þrautseiga starfið hennar og trygð við félagið með því að gera hana að heiðursforseta sínum. Hún var aldrei að troða sér fram, enda þurfti hún þess ekki til þess að á henni bæri. Hluttaka hennar í starfi sýndi hver og hvar hún var. Þegar hin nýja veglega kirkja Selkirksafnaðar var bygð, stóð hún og öll fjölskylda hennar framarlega til stuðnings þess máls. Og hún árétti áhuga sinn og velvild með því að gefa kirkjunni



STEFANÍA BENSON

skrautlegt altari í minning um látna ástvini. Verður altarið þa með Kristsmyndinni, ljósum umvafið, fagur minnisvarði þessara góðu konu, elsku að ljósi kristninnar, sem lýsti henni lífsins sönnu leið, svo hún gat tekið undir og sungið af hjarta:

> "Heim, Jesú, heim sem ljúfast barn mig leið
> í ljóssins vist,
> svo hvílast megi eg eftir æfiharm
> í eilífs friðar ljósi Guðs við barm."

Frú Stefanía var fædd 9. september 1849, að Áslaugarstöðum í Vopnafirði. Foreldrar hennar voru þau Magnús Rafnsson og kona hans, Karin Sveinsdóttir, og með þeim ólst hún upp. Hún giftist ung Sigbirni Ásbjörnssyni, og bjuggu þau að Ljótsstöðum í Vopnafirði þar til þau fluttust vestur um haf árið 1893 og settust að í Selkirk í Manitoba, þar sem bróðir frú Stefaníu, Páll Magnússon, var búsettur og var við verzlun. Þar var heimili þeirra upp frá því. Skömmu eftir að hingað kom tók Sigbjörn sér viður-nefnið Benson, sem öll fjölskyldan gekk undir.

Stefanía og Sigbjörn eignuðust 14 börn, sex dóu í æsku heima en tvö hér, hið elzta og yngsta, skömmu eftir að hingað var komið. Mann sinn misti Stefanía 1921, og upp frá því átti hún heimili hjá dóttur sinni, frú Margréti Bridges og naut hjá henni og öllum börnum sínum og tengdabörnum ástúðlegrar umönnunar. Börnin dáin, auk þeirra, sem um var getið, eru: Sigurbjörg, gift Dr. Th Thordarsyni í Minneota, Minn., hann nú dáinn líka; Björn, lög-fræðingur, sem dó úr flúnni skæðu haustið 1918, á sama tíma og stríðinu lauk, hann var kvæntur Floru Július, starfsmey í Fyrsta lúterska söfnuði í Winnipeg, honum mjög samhent í öllu safnaðar-starfi; og Stefán, ógiftur. Þau á lífi eru: Rúnólfur, kvæntur Björgdísu dóttur Jóns Skardal; Margrét, sem áður hefir verið minst gift canadiskum manni, Arthur Bridges; Jóhann, kvæntur cana-diskri konu,, Winnie Stickney; og Halldóra, ógift. Nítján eru barnabörn Stefaníu á lífi og tveir bræður, Páll, sem nefndur hefir verið og Sveinn Magnús í Minneapolis.

Börnin öll 6, sem heima áttu í Selkirk voru samhent foreldr-unum í að styrkja söfnuð og kirkju. Ástríki og umönnun móður-innar sérstaklega kom þar í ljós, því henni var ant um kristileg uppeldi barnanna sinna, enda var öll samvinna mín með þeim að kristindóms- og kirkjumálum hin ánægjulegasta. Björn heitinn var þar fyrir. Var hann oft endurkosinn forseti safnaðarins. Hann var duglegur og ötull og hlífði sér ekki. Líka var hann sér-lega úrráðagóður. Þegar eitthvað þurfti að gerast, en útlit ekki sem bezt, sagði hann við meðnefndarmenn sína: "Við getum ger

þetta, drengir; við skulum fara á stað og *gera* það." Við fráfall hans misti ekki aðeins konan hans og börnin foreldrar hans og systkini mikils við, heldur líka söfnuðurinn allur og kirkjufélag okkar. Því var hann trúr eins og móðirin og fjölskyldan. Við hjónin fundum mjög til þess, að trúr vinur og ágætur starfsbróðir hafði verið kallaður burtu.

Af því, sem nú hefir verið sagt, sézt hve þunglega höggvið var oft í sama sárið hjá frú Stefaníu, en ekki lét hún á sjá. Þrekið, sem henni var gefið var svo mikið; hún virtist jafnvel frekar að styrkjast. Um hana segir ritstjóri Lögbergs í eftirmælum: "Stefanía var heilsteypt í skapgerð og bjó yfir bjargfastri Bergþórutrygð." Er það satt að því viðbættu að hún átti þá kristnu trú "í stormum lífs er styður og styrkir hjörtu þreytt."

Hún var orðin þreytt, sem von var, háöldruð kona. Síðustu orð hennar við mig voru um hvíldina þráðu. En hún vissi í hverju hin sanna hvíld var fólgin: Ekki í því aðeins að fá að deyja, heldur í því að fá að deyja Drotni og að flytja heim til hans. Það fékk hún þ. 22. október 1940. Var hún jarðsungin af sóknarprestinum, séra Sigurði Ólafssyni, frá heimilinu sínu, sem á hefir verið minst, og frá kirkjunni sinni, er hún unni og þar sem hún líka hafði átt heima.

"Svo heit og sönn og trygg og trú
mót táli heimsins stríddir þú
og leiðst svo inn til lífsins;
hjartans parta
veröldin kalda kældi aldrei;
kærleikssólin
leiftri þér nú við lífsins stólinn."

(M. J.)

*N. S. Thorláksson.*



# KROSSBERAR

Eg varð vör þriggja krossbera í hinni blómlegu bygð á meðan e stóð þar við í þrjá daga — þrjár konur, sem tekið höfðu við krossin um til að bera hann um stund.—

Ein var móðir sem sjúkdómskross hafði lagt í rúmið um hrí Hún var glöð og hlý í viðmóti gagnvart þeim, sem heimsóttu han og möglaði ekki, en bar sinn kross með þolgæði og staðfastri trú almáttuga hönd Guðs. Hún stjórnar sínu heimili frá rúmstokknu og stólnum sínum, og uppfyllir sínar skyldur sem góð og um hyggjusöm móðir.

Önnur var kona, sem nú í meir en þrjátíu ár hefir borið kross inn. Sem barn var hann lagður henni á herðar, og hún ber han enn — ber hann eins og hetja. Ekki sá eg hana, en ferðasyst mín heimsótti hana og sagði mér að hún væri glöð og bæri sín byrði eins og hetjur þær, sem hún er komin af.

Sú þriðja var stúlka, ung og efnileg, yndi og prýði móðu sinnar og systkina. En krossinn var á hana lagður — hún verðu að bera hann um stund. Þegar hún fyrst veiktist, báðum við hei fyrir henni, að hún mætti fá bata. Máske við gleymdum að segja Verði þinn vilji! Henni batnaði en batinn varð skammur. Hú tók aftur við krossinum og ber hann enn — ber hann með þolin mæði og undirgefni undir vilja Guðs.



Margir eru þeir krossberarnir, sem Guðs hönd snertir o kvaddir eru til að bera hann um stund. En í auðmýkt og tr snerta þeir síðar meir klæðafald Krists og verða heilir. En vi sem horfum á, látum kærleiksljós vor skína skært á lífsleiðinni.

"Minn Jesú lát ei linna
Í lífi trú mér hjá,
Svo faldi fata þinna
Eg fái þreifað á,
Og kraftinn megi kanna,
Sem kemur æ frá þér,
Til græðslu meinum manna
Og mesta blessun lér."

Argyle, 1940. *M. S.*

# Ingibjörg J. Ólafsson

Síðan Bandalag lúterskra kvenna var myndað, fyrir seytján árum, hefir frú Ingibjörg J. Ólafsson lagt fram alla sína krafta til að styðja þann félagsskap, og með því, þau kristindóms- og mannfélagsmál, sem eru á dagskrá Bandalagsins. Í síðastliðin fimm ár hefir hún veitt því forstöðu og unnið með dygð og trúmensku, því það er þung byrði sem forseti Bandalags lúterskra kvenna þarf að bera. Hún stjórnar fundum með lipurð og skynsemi, en missir aldrei sjónar á því takmarki, sem stefnt er að. Hún íhugar vel það sem henni er ant um að komist í verk, en þegar hún er sannfærð um að málið sé tilbúið, hrindir hún því í framkvæmd. Má benda á ritið Árdís, og á sumarnámskeið Bandalagsins, sem veitt hefir kristindómsfræðslu svo fjölda mörgum unglingum og hresst þau andlega og líkamlega.


INGIBJÖRG J. ÓLAFSSON

Trú hennar er bjargföst, sú trú, sem hún tók við í móðurarf, og um hana má segja:

Ef varðveitir arfleifð þíns anda
Þér ekkert í heimi má granda.

Margra ára kynning mín af Mrs. Ólafsson hefir verið mér stöðug og vaxandi opinberun um gáfur hennar og tilfinningalíf. Gáfur hennar eru fágætar að víðfeðmi og dýpt. Hún hefir djúpan skilning á íslenzkum ljóðum og trauðla það ljóð til að hún ekki kunni það. Gáfur hennar eru gagnrýnandi með djúpum skilningi á mönnum og málefnum. Er ávalt málsvari lítilmagnans, eða þess sem örlögin hafa sett í skugga. Viljaþróttur er mikill, skoðunin sjálfstæð, lundin föst. Um hana má heimfæra orð Dr. Gríms Thomsen:

"'Fann ei skyldu sína heldur
að heiðra sama og aðrir alt."

Djúphygð og viturleg festa einkennir alla afstöðu hennar og gerir hana að eðlilegum leiðtoga. Hún metur mest að vera en ekki að sýnast.

Frú Ingibjörg Jóhanna Ólafsson er fædd 17. júní 1887 í Geysi bygð í Nýja íslandi. Foreldrar hennar voru þau hjónin Steinun Jónsdóttir og Jón Pétursson. Hún fluttist með foreldrum sínu og systkinum til Gimli árið 1896. Þar naut hún skólamentunar, Gimli og í Winnipeg. Hún útskrifaðist sem skólakennari og stun aði kenslu í ýmsum skólum í næstu tólf ár. Kendi sex ár á Gim og var í tvö ár yfirkennar í Árborg skóla. Hún giftist 29. jún 1922, séra Sigurði Ólafssyni, þá þjónandi söfnuðunum í suðu hluta Nýja íslands. Þau eiga tvo efnilega syni: Karl Jóhann 1 ára gamall og Jón Ólafur 15 ára. Hún gekk einnig þremur dætru séra Sigurðar í móðurstað, og er fórnfýsi hennar ástvinunum t handa, undursamleg guðsgjöf. Þessar dætur voru þá fimm, se og átta ára að aldri. Hin elzta, Evangeline Vigdís, kenslukona, dá 3. júlí 1931; Josephine Sigrid, kenslukona, og Freyja Elinor hjúkrunarkona.

Heimili þeirra og starfssvið var á Gimli þar til í júní 1929, a þau fluttu til Árborg. Þar þjónaði séra Sigurður þar til 1940 a þau fluttust til Selkirk. Frú Ingibjörg hefir verið fyrirmynd se prestkona eins og frú Lára Bjarnason var í gamla daga. Hún hef látið áhrif sín vera víðtæk og blessunarrík, og hver og einn e ríkari fyrir viðkynninguna. Hennar starf mun hafa sitt endurgjal

*Margrét Stephensen.*

---

# MARÍA MARKAN

Þegar sú fregn barst okkur hingað til Winnipeg, að Miss Marí Markan, hin fræga söngkona íslands, væri væntanleg til Canad fyltist hugur okkar tilhlökkun yfir því að fá að kynnast henni, þ við vorum viss um að hún myndi heimsækja Winnipeg, sem e Reykjavík Ameríku. Miss Markan hafði dvalið í Ástralíu se gestur (guest artist) ríkisútvarpsins "Australian Broadcasting Com mission", kom svo til Vancouver, og eftir 3½ mánaðar dvöl þa kom hún loks til Winnipeg í byrjun þessa árs, sem gestur Þjóð ræknisfélagsins, og var henni sem vænta mátti, tekið með opnu örmum og undirbúningur undir samkomu, hér í bænum, þega hafinn. Þessi samkoma var haldin í Winnipeg Auditorium Conce Hall og voru þar samankomin um 800 manns, allur þorri þeirr íslendingar. Var það fallegur hópur á að líta og hefi eg áreiðan lega rétt fyrir mér, er eg held því fram, að leit sé á ásjáleg

áheyrendum en löndum mínum, og þeir sýndu það fyllilega að þessu sinni, að þeir kunna að meta sanna list og létu það óspart í ljós hve mikils þeir mettu þessa ágætu söngkonu og að hún væri Íslendingur.



MARÍA MARKAN

Við fengum mörg tækifæri til þess að hlusta á Miss Markan, hér í Winnipeg, því hún var örlát á að miðla öðrum af auði listar sinnar og flutti með sér gleði og góðvild hvar sem leið hennar lá. Hún söng sig inn í hjörtu allra, sem á hana hlýddu. Á tuttugu og fimm ára afmælishátíð Jóns Sigurðssonar félagsins (I.O.D.E.) söng Miss Markan mörg unaðsrík lög og á árssamkomu Karlakórs Íslendinga í Winnipeg var hún sóló-söngvari (guest artist). Hún ferðaðist með hóp vina til "Betel" á Gimli og söng þar mörg lög, er "Sólsetursbörnunum" þar hafa verið kær frá barnæsku.

Hún söng einnig við guðsþjónustur í báðum íslenzku kirkjunum hér í Winnipeg. Við hlustuðum á hana er hún söng í Fyrstu lútersku kirkjunni, hið dýrðlega lag Björgvins Guðmundssonar undir sálminum, sem við lærðum öll um leið og við lærðum að tala, "Nú legg eg augun aftur." Við þökkum henni af hjarta marga unaðsríka stund. Söngur hennar var áhrifamikil lofgjörð og bæn í orðsins fylzta skilningi.

Við fengum mörg tækifæri til þess að hlusta á Miss Markan, hér í Winnipeg, því hún var örlát á að miðla öðrum af auði listar sinnar og flutti með sér gleði og góðvild hvar sem leið hennar lá. Hún söng sig inn í hjörtu allra, sem á hana hlýddu. Á tuttugu og fimm ára afmælishátíð Jóns Sigurðssonar félagsins (I.O.D.E.) söng Miss Markan mörg unaðsrík lög og á árssamkomu Karlakórs Íslendinga í Winnipeg var hún sóló-söngvari (guest artist). Hún ferðaðist með hóp vina til "Betel" á Gimli og söng þar mörg lög, er "Sólsetursbörnunum" þar hafa verið kær frá barnæsku.

Hún söng einnig við guðsþjónustur í báðum íslenzku kirkjunum hér í Winnipeg. Við hlustuðum á hana er hún söng í Fyrstu lútersku kirkjunni, hið dýrðlega lag Björgvins Guðmundssonar undir sálminum sem við lærðum öll um leið og við lærðum að tala, "Nú legg eg augun aftur." Við þökkum henni af hjarta marga

unaðsríka stund. Söngur hennar var áhrifamikil lofgjörð og bæn í orðsins fylztu skilningi.

Miss Markan kom til okkar í Winnipeg, og eins og oft hefir verið sagt þegar á hana hefir verið minst, kom hún, sá og sigraði. Nú er hún komin til New York, þar sem hún hefir unnið sinn stærsta sigur, þar sem að hún var valin úr stórum hóp keppenda til þess að syngja í Metropolitan óperunni í þeirri borg. Íslendingar hér í álfu óska henni alls hins bezta í framtíðinni.

*Flora Benson.*

---

# SKÝRSLA FORSETA

Mér er það sérstakt gleðiefni að mega bjóða ykkur velkomnar á þennan stað. Þrjú síðastliðin sumur hefir Bandalag lúterskra kvenna ráðið hér húsum um stutt skeið. Hér hefir okkur fundist væri indælt að dvelja um stundarsakir og gleyma áhyggjum hversdagslífsins. Hér höfum við minst orða frelsarans er hann bauð lærisveinum sínum að koma á afvikinn stað og hvílast um hríð, og hlýða á boðskap hans. — Hingað býð eg ykkur velkomnar, kæru systur, megi blessun Guðs hvíla yfir hugsunum, orðum og athöfnum fundanna, sem í hönd fara. Látum okkur gleyma öllu, sem hrellir á þessum erfiðu tímum, en muna aðeins að armur Drottins umvefur okkur og okkar og alla menn. Við tökum undir með orðunum:

"Hvað megnar allra myrkra kraftur
þín máttarhöndin leiðir aftur
úr sorta ljómann, sól úr nótt."

Á þessu seytjánda ársþingi lítum við yfir farinn veg, yfir samfylgd og samstörf þessara liðinna ára. Við eigum því láni að fagna að á hverju ársþingi eru nokkrar þeirra sem sátu stofnfund félagsins í Selkirk árið 1925. Þær, ásamt ýmsum öðrum, hafa vakað yfir starfi þess og viðgangi á umliðnum árum. Ýmsar hafa hugsjónir okkar verið og ýmsar tilraunir til framkvæmda þó árangur hefði án efa geta orðið meiri.

Á fyrri árum var hafið starf í kristilegri fræðslu í þeim bygðum sem ekki höfðu fasta prestþjónustu. Skólakennarar og fleiri gáfu tíma sinn til þess að fara út í þær bygðir sem óskuðu eftir starfi þeirra. Kendu þar um tveggja vikna tímabil á hverjum

degi og gerðu tilraun til að koma á stofn föstu sunnudagsskólastarfi. Mörg nöfn koma okkur í hug þegar við minnumst þess starfs, sem við vitum að bar blessunarríkan ávöxt. Nöfn stúlknanna, sem kendu og nöfn kvennanna, sem ávalt hafa verið vökumenn yfir þessu starfi. Þær Mrs. H. G. Henrickson, Mrs. B. S. Benson og Mrs. O. Stephensen. Vildu einhverjar bygðir hagnýta sér þetta er Bandalagið tilbúið að sinna því.

Tilraun var gerð til þess að koma á heimilisguðsþjónustum. "Back to the family altar" var efni, sem mikið var ritað um fyrir nokkrum árum. Margir af meðlimum Bandalagsins minnast þess er húslestrar voru lesnir og sálmar sungnir í bjálkahúsum foreldra þeirra á frumbýlingsárum, minnast hve þá var hlýtt og bjart umhverfis, þó ekki væri hátt undir loft eða vítt til veggja. Á ársþingum var rætt um hvílík orkulind það gæti orðið ef konur söfnuðu fjölskyldu sinni saman til sameiginlegrar guðræknisstundar að kvöldi eða morgni hvers dags. Erindrekar tóku þessa hugsjón heim, er mér kunnugt um að víða var þetta rætt á kvenfélagsfundum og sumstaðar að minsta kosti gert að framkvæmd.

Sömuleiðis áttum við þá hugsjón, að allar konur tilheyrandi þessum félagsskap mættust í anda í bæn á vissum tíma hvers morguns. Þær eru dreifðar út um allar bygðir Íslendinga, nokkur hundruð að tölu, mættust í bæn þar sem beðið væri fyrir kristindómsstarfi og fyrir öllu því, sem til blessunar mætti verða. Þeir, sem eru að halda uppi merki krossins okkar á meðal þurfa bæna okkar með, og við þurfum þess styrks með sem sú sameiginlega bænastund gæti veitt. Við trúðum því þá og trúum því enn að sú sameiginlega bænarstund yrði til mikillar blessunar. "More things are wrought by prayer than this world dreams of."

Hið eina íslenzka kvennablað, sem gefið er út vestan hafs hefir Bandalagið gefið út í síðastliðin átta ár. Efni þess hefir verið þannig að konum er alveg óhætt að kaupa það. Þar hefir aldrei verið birt neitt, sem kristilegt félag hefði þurft að fyrirverða sig fyrir. Ritstjórn og ráðsmenska er í höndum þeirra kvenna, sem eru verkinu vel vaxnar, þær Mrs. O. Stephensen og Mrs. F. Johnson.

Ekki get eg með vissu sagt hvað mörg erindi hafa verið flutt á þingum Bandalagsins, þau skifta mörgum tugum. Öll hafa þau verið flutt af konum og stúlkum og höfum við ástæðu til að vera stoltar af mörgum þeirra. Með þeim hafa verið leiddir í ljós hæfileikra, sem hætt er við að annars hefðu legið í dái.

Síðastliðin fimm ár hefir Bandalagið sent út árs-prógram til félaga því tilheyrandi, hefir hvert félag fylgt því að svo miklu leyti sem því hefir fundist við eiga. Einnig hefir Bandalagið hvatt félög sín til að gangast fyrir því að grafreitir hinna ýmsu bygða

yrðu hirtir og prýddir þar sem þannig er ástatt að það verk e
ekki í höndum sérstakrar nefndar. Flest félög Bandalaginu til
heyrandi hafa viðtekið þá reglu að hafa eina al-íslenzka samkom
árlega þar sem eldra fólki er boðið sem heiðursgestum. Hefir s
hreyfing verið mjög vinsæl í hinum ýmsu bygðum.

Síðastliðin fimm ár hefir Bandalagið staðið fyrir samkepni
framsögn íslenzkra ljóða meðal unglinga. Um þrjú hundruð ung
menni hafa þar tekið þátt og lært íslenzk kvæði. Sjö silfur
medalíur hafa verið gefnar. Nú á þessu þingi keppa þessi sj
ungmenni um gull-medalíur.

Fyrir þremur árum byrjaði Bandalagið á að hafa námskeið
kristilegri fræðslu hér á þessum stað. Þennan "camp" höfum við
leigt í tíu daga á hverju sumri og borgað $12 á dag. Hópur starfs
fólks hefir verið hér boðinn og búinn til að gefa tíma sinn o
krafta. Eg veit ekki hvert ofsagt er að segja að sumir þeirra haf
sveitst blóði til að sjá þá hugsjón rætast að hingað kæmi æskulýðu
kirkju okkar og sunnudagsskólakennarar til að dvelja hér u
hríð, færast nær frelsara sínum og láta sér fara fram um leið o
þeir nytu hér hvíldar og skemtunar. Sumar okkar sáu í and
glæsilegan árangur af þessu starfi og vonuðum að hér yrði lagðu
grundvöllur fyrir blessunarríkt framtíðarstarf þessa félags. E
þakka af hjarta öllum þeim, sem staðið hafa við hlið okkar í þess
starfi, sérílagi prestum kirkjuféagsins. Á þessu þingi verðið þi
að ræða um og ákveða hvort við höldum þessu starfi áfram eð
gefumst upp. Verður það hlutverk okkar að bera þetta merki fran
til sigurs eða gerum við okkur ánægðar með að láta það falla niður
Verði því haldið áfram verða fleiri að gefa því stuðning þrátt fyri
það að aðsókn hefir aukist að nokkru með hverju ári. Hugmyn
um samvinnu með að byggja "Lutheran Camp" var færð í tal vi
mig fyrir nokkrum dögum.. Þetta mál er í ykkar höndum o
skal rætt frá öllum hliðum.

Mér er það mikil gleði að mega nú á þessu þingi bjóða vel
komið í Bandalagið Kvenfélag Selkirk safnaðar. Eitt af okka
fjölmennustu kvenfélögum, sem hefir starfað með dæmafárri trú
mensku og myndarskap í nærfelt fimmtíu ár. Blessun Guðs mu
hvíla yfir þeirri ákvörðun þeirra að sameinast Bandalaginu, þeim
sjálfum og okkur til handa. Fyrir hönd Bandalagsins býð eg félagi
hjartanlega velkomið.

Eg gat þess á síðasta þingi, að mér væri kært að láta af hend
forsetastöðu, þó eg léti til leiðast með að gegna því starfi þett
umliðna ár. Síðan hefi eg tilkynt stjórnarnefndinni það sem e
endurtek nú að eg get ekki gefið kost á mér sem forseta aftur
Með hjálp stjórnarnefndar hefi eg gert tilraun til að þoka starfin

áfram þessi fimm ár, sem eg hefi verið við stjórn félagsins; höfum við reynt að spara ekkert til þess að það mætti ganga sem bezt, en getum þó tekið undir með honum sem sagði: "ónýtir þjónar erum vér." Eg hefi verið ónýtur þjónn og finn til þess að árangur hefði getað verið meiri. Eg þakka hin mörgu bréf, sem mér hafa borist þessar síðustu vikur, þakka hlýhug og tiltrú, sem þau hafa túlkað, en treysti því að engin vináttubönd slitni þó eg geti ekki orðið við þeim tilmælum, að halda áfram. Fimm ár er langur tími, og það er ekki heppilegt að sama manneskjan fylli neitt embætti of lengi, þar sem úr mörgum er að velja til að taka við. Nú tekur einhver ykkar við, og lofið mér að vera ein af þeim, sem hjálpa til. Eg þakka samvinnuna alla, þið hafið verið mér frábærlega góðar og umburðarlyndar. Samverustundirnar verða sólskinsblettur á hugarins himni.

Eg get ekki lokið þessari skýrslu án þess að hugurinn hvarfli til hinnar ógurlegu styrjaldar, sem nú ríkir. Með sanni má segja, að allur heimurinn sé í sárum og þúsundir spyrja: "Hversu lengi, Drottinn, hversu lengi?" — Máske þokan, sem grúfði yfir löndum og þjóðum hafi verið orðin svo dimm að þessi ógurlegi stormur ófriðar hafi verið það eina, sem gat dreift henni. Það var þoka vantrúar, kæruleysis, ofmetnaðar og sjálfsdýrkunar. Sumum fanst þeir þyrftu ekki Guðs lengur með, fundu sig of stóra til að biðja um handleiðslu hans í þeirri ábyrgðarstöðu að stjórna þjóðum og gerðu tilraun til að vísa á dyr kristindómi og guðstrú úr landi sínu. Rödd Guðs náði ekki til fjöldans í hinum blíða blæ friðar og velgengni umliðinna ára; megi allar þjóðir heimsins og hver einstaklingur hverrar þjóðar heyra og skilja rödd Hans í hinum ógurlega stormi, sem nú geysar yfir. — Guð styrki systur okkar um allan heim hvaða þjóð, sem þær tilheyra, sem bera þann þunga kross, sem stríðið leggur þeim á herðar. Megi Guðs hönd græða sárin og þerra tárin. Í þessu sambandi minnist eg canadisku konunnar, sem gat þess að það eina, sem hún gæti gert nú væri að biðja þegar aðrir svæfu. — "Eg á tvo dóttursyni," sagði hún, "í hinum brezka her og þrjá sonarsyni í hinum þýzka her; eg eyði nóttunum í að biðja fyrir öllum." Við þökkum Guði fyrir að tilheyra hinu brezka veldi, fyrir að tilheyra þeirri þjóð, sem alt vill leggja í sölur til að brjóta á bak vald kúgunar og eyðileggingar og sem er óhrædd að bera fram til sigurs merki frelsis og réttlætis. Við horfum öruggar til hins ókomna. Guð gefur sigur hins góða.

*Ingibjörg J. Ólafsson.*

Selkirk 31. Júlí 1941.

# ÞINGTÍÐINDI

*Bandalags Lúterskra Kvenna, haldið í Can. S. S. Mission Cam*

*Gimli, 6.—8. ágúst 1941.*

(Athugasemd: Skemtiskrá og skýrslur yfir embættismann kosningar eru prentaðar í enska fundargerningnum. Nöfn féla og fulltrúa birt í Lögbergi 14. ágúst).

Þingið var sett af forseta, Mrs. S. Ólafsson 6. ágúst kl. 2 e. eftir stutta guðræknisathöfn, eins og venja er við upphaf hve fundar. Mrs. M. M. Jónasson bauð gesti og erindreka velkom fyrir hönd kvenf. Árdalssafn., Ísafold (Víðir) og Freyja (Geysir) í boði þeirra var þingið haldið á þessum stað. Kvenfélag Selki safn. var boðið hjartanlega velkomið í Bandalagið.

Þingið mintist í þögulli bæn þeirra félagssystra er fallið höf frá á liðnu ári.

Samkvæmt skýrslu kjörbréfanefndar höfðu 56 konur þingré indi, sem fylgir: 29 fulltrúar frá 18 félögum; 9 meðlimir stjórna nefndar; 3 meðlimir námskeiðsnefndar; 9 einstakir meðlim B.L.K.; og 4 prestkonur, Mrs. B. A. Bjarnason, Mrs. V. J. Eyland Mrs. E. H. Fáfnis, og Mrs. S. Ólafsson.

Skýrslur voru lesnar frá 18 kvenfélögum, sem lýstu yfirgrip miklu starfi, og komu í ljós margar nýstárlegar hugmyndir, se fulltrúar taka til greina og flytja heim með sér. Skýrsla hins ný meðlims, Selkirk kvenfélags, var ítarlegt og mjög fróðlegt yfir yfir starf félagsins frá byrjun. Var það stofnað 1897 og he starfað jafnan síðan með þrótti og fyrirhyggju.

Öll félögin hafa nú bætt við aðalstörf sín, að vinna fyrir R Cross og í þágu hermanna og húsviltra af stríðsvöldum.

Skýrslur þessar eru í alla staði mjög athugunarverðar, þeg alt er tekið til greina. Meðlimatala félaganna er frá 10 upp í 8 Aðeins þrjú félög telja yfir 50 meðlimi. Hefir þessi litli hópur unn fyrir og safnað fé, sem á þessu síðasta ári nemur um $7,900.00 og einungis notað til kristindóms- og mannúðarstarfa.

Og ekki sízt eru skýrslur þessar eftirtektarverðar fyrir þá s að þær sýna í fáum dráttum hvernig lítill hópur af fórnfúsu konum í hinum ýmsu ísl. bygðum vinna af kappi og elju með hi styrka íslenzka frumbýlingseðli til uppbyggingar nútíð og framtí

ágæt skýrsla frá kvenfé. "Stjarnan", Árnes, kom því miður of seint til að vera lesin á þingi.

Skýrsla forseta gaf nákvæmt yfirlit yfir starf Bandalagsins frá byrjun. Hefir Bandalagið beitt sér fyrir eftirfylgandi málum, sem hafa borið blessunarríkan ávöxt:

1. Sunnudagsskólum í prestlausum bygðum.

2. Heimilis guðsþjónustum.

3. Að halda sameiginlegar bænarstundir allra meðlima.

4. Hefir gefið út eina vestur-íslenzka kvennablaðið í 8 ár með ágætum árangri.

5. Hefir samið og sent út ársprógram til kvenfélaganna í 5 ár.

6. Hefir efnt til starfsemi á ýmsum sviðum svo sem (a) að prýða grafreiti (b) að halda al-íslenzkar samkomur, þar sem gamalt fólk er boðsgestir, o. s. frv.

7. Hefir haft á þingum erindi í tugatali, samin og flutt af konum, öllum þátttakendum til mikillar uppbyggingar.

8. Stofnaði og hefir haldið uppi samkepni í framsögn ísl. ljóða í 5 ár, sem hátt á þriðja hundrað börn hafa tekði þátt í. Sjö silfur medalíur hafa verið gefnar. Nú á þingi kept um tvær gull-medalíur.

9. Stofnaði og hefir starfrækt í þrjú sumur Ungmennanámsskeið í kristilegri fræðslu, sem hefir blessast og glómgast ár frá ári fyrir einstaka sjálfsfórn og atorku starfsfólksins. Lýsti forseti ánægju sinni yfir því að mega bjóða þingið velkomið einmitt á þennan stað, þar sem þessi dýrmæta og dýrkeypta hugsjón er að rætast og verða til þess að styrkja grundvöllinn í kristindómsstarfi hinnar íslenzku lútersku kirkju.

*Fjármál*: Skýrsla féhirðis sýndi í sjóði frá fyrra ári $217.12; inntektir á árinu $123.20; útgjöld $128.89; í sjóði nú $201.41.

Þessi mál voru rædd og afgreidd á þingi:

I. *Árdís*. Skýrsla ráðskonu blaðsins, Mrs. F. Johnson, sýndi að yfir 500 eintök voru seld á árinu. Í sjóði eru $465.68. Þinginu barst beiðni frá Junior Ladies' Aid, Winnipeg, þess efnis hvort ekki megi birta ensk erindi í ritinu. Málið var all-ítarlega rætt, og allar ástæður með og móti teknar til greina; og þó að mörgum þætti eftirsjá í því að hætta að hafa "Árdís" al-íslenzkt kvennablað, var að hinu leyti álitið réttlátt og tímabært að verða við þessum tilmælum. Var því samþykkt þessi tillaga: — Að ritstjórum sé leyft að birta ensk erindi í "Árdís."

II. *Hannyrðasýning*: Stjórnarnefnd var falin framkvæmd í þ
máli.

III. *Bindindi.* Samþykt að senda tvo erindreka á þing Tempe
ance Alliance í haust. Voru þessar kosnar: Mrs. H. F. Danielso
Winnipeg, og Mrs. C. O. L. Chiswell, Gimli; til vara, Mrs. J. Terg
sen, Gimli. Þingið samþykti svohljóðandi tillögur í bindindismálin

1. Að allir meðlimir Bandalagsins, sem félög og einstak
ingar skuldbindi sig á ný til að leggja enn meiri rækt v
bindindisstarfið.

2. Að allir meðlimir B.L.K. geri sérstaka tilraun til
hvetja ungmenni þau, sem nú þegar hafa verið á námsskei
Bandalagsins og eru í þann veginn að byrja forstöðu í kristi
dómsmálum, að beita sér alvarlega fyrir þessu þarfa málefni.

3. Að allir meðlimir B.L.K. geri gangskör að því að ska
í sinni bygð það andrúmsloft, sem virkilega verður til þess
útrýma ofnautn og óhófi í félagslífinu á hvaða sviði sem það e

IV. *Skemtiskrá fyrir fundi félaganna*: Kvenfélagi Selkir
safnaðar var falið að semja prógram fyrir næsta ár.

V. *Heiðursmeðlimir kvenfélaga*: Ýms félög hafa þann sið
heiðra meðlimi sína er þær hafa náð vissu aldursstigi, t. d. 70 ár
hugmyndin þótti mjög góð.

VI. *Samkepni í framsögn*, eða eitthvað í þess stað: Var ra
um að kvenfélögin reyndu að stofna eða styrkja að einhverju le
barnasöngflokka, unglinga-"orchestras" o. fl., sem eflir góð
smekk og þroskar unglinga andlega.

Á fimtudagskveldið fór fram gullmedalíu-samkepni Band
lagsins. Þessir unglingar, sem áður höfðu hlotið silfur-medal
tóku þátt:

Yngri flokkur — Iris Frederickson, Geysir; Borga Sigurdso
Geysir; Helga Eiríkson, Árborg.

Eldri flokkur — Vordís Friðfinnson, Geysir; Wilhelm Pálso
Geysir; Louisa Eiríkson, Árborg; Beatrice Ólafsson, Árborg.

Dómnefnd skipuðu séra R. Marteinsson, Dr. E. Steinþórss
og Mrs. Sylvia Kárdal. Talsmaður dómnefndar, séra R. Martei
son, skýrði frá að afarerfitt hefði verið að gera úrskurðinn, þar
þátttakendur í hverjum flokki fyrir sig hefðu verið svo jafnir,
allir farið svo framúrskarandi vel með kvæðin. Gullmedalíurn
hlutu Helga Eiríkson og Louisa Eiríkson. Þetta starf Bandalagsi
hefir náð almennum vinsældum og hefir nú lagt grundvöllinn un
framtíðarstarfsemi í þessa átt hjá kvenfélögunum heima fyr

áhugi fer æ vaxandi; nú á þessu þingi gaf Mrs. C. O. L. Chiswell, Gimli, $10 til styrktar starfinu.

VII. *Sumarnáðmskeiðið*: Forseti innleiddi málið og þakkaði meðlimum Bandalagsins, Mrs. H. F. Danielson, Mrs. F. Johnson og Miss Skúlason, sem af mikilli fórnfýsi hafa starfað við námsskeiðið í þessi 3 ár, og Mrs. S. Sigurgeirson í 2 ár.

Og öllum prestunum þakkaði hún fyrir þeirra miklu og góðu hjálp, og sérstaklega séra E. H. Fáfnis og séra S. Ólafssyni, sem hafa verið á staðnum öll þrjú tímabilin.

Skrifari gaf skýrslu yfir starfið, sem sýndi: Nemendur innritaðir á námsskeiðinu: 1939 — 45; 1940 — 48; 1941 — 50. Sjö ungmenni hafa sótt námsskeiðið öll þrjú árin, eru það: Josephine Ólafsson, Baldur L. Danielson, Karl Ólafsson, Jón Ólafsson, Lloyd Sigurdson, Olive Oddleifson, Thorhallur Erlendson. Tólf hafa verið í 2 ár: Helgi Austmann, Njáll Jónasson, Grace Eyólfson, Sigurborg Oddleifson, Teddy Erlendson, Arni Sveinson, Maria Josephson, Margrét Johnson, Agnes Oddleifson, Elenore Guðmundson, Stefan Helgason, Jónas Sigurgeirson.

Við starfrækslu þessa fyrirtækis hefir auðvitað verið töluverður tekjuhalli, sérstaklega þessi tvö síðustu ár, þar eð leiga fyrir plássið er $12 á dag ($120) og annar kostnaður hár; en í augum þeirra sem unna þessu málefni er það ekki stærsta spursmálið, heldur hitt: er það áhugamál allra meðlima og almennings að halda námsskeiðinu áfram? Málið var rætt af miklum áhuga af erindrekum og prestum. Var bent á m. a.:—

1. Hina brýnu nauðsyn fyrir uppfræðslu leiðtoga (Leadership training). Kváðu prestarnir áreiðanlegt að sumarnámsskeið B.L.K. væri hin rétta úrlausn þess máls, og þökkuðu þeir Bandalaginu fyrir þorið og dugnaðinn til að hrinda þessu mikilvæga starfi af stað.

2. Hina nýju strauma og aukinn áhuga, sem það leiddi af sér meðal hinna ungu.

3. Að nauðsyn væri að allir létu sig þetta skifta og hefðu áhuga fyrir því — í stað þess að fáeinar konur úr stjórnarnefnd B.L.K. ásamt starfsfólki hefðu borið byrðina.

4. Möguleika að byggja camp, þar sem mismunandi hópar gætu notið andlegrar uppbyggingar og hvíldar alt sumarið.

5. Hugmynd um samvinnu við aðrar lúterskar kirkjudeildir.

Var svo samþykt í einu hljóði að halda áfram með námsskeiðið.

Mrs. O. Stephensen vakti máls á því hvort ekki mætti nú byrja byggingarsjóð, á þessu þingi. Tillaga Mrs. F. Johnson, studd

af Mrs. O. Stephensen, að slíkur sjóður sé stofnaður með $50 fran lagi úr sjóði B.L.K. og $50 úr "Árdísar" sjóði. Var það samþyk Fjöldi af einstaklingum á þingi gáfu ríflega í þennan nýstofnað sjóð.

Samkomurnar á miðvikudags- og fimtudagskvöld voru af fjölmennar og sérstaklega síðara kveldið, þá var hinn stóri fun arsalur C. S. S. M. Camp alskipaður og stór hópur af fólki stóð.

Rausnarlegar veitingar voru fram boðnar öllum samkomuges um bæði kveldin, og öllum gestum þingsins þessa tvo daga, og va það allstór hópur fyrir utan erindreka sem sýndi þann áhuga fyr málum Bandalagsins að sitja alla fundi.

Á föstudagsmorgun kl. 9 var guðsþjónusta, sem séra S. Ólafsso stýrði. Mrs. Gíslason, Brown, flutti stutt þakkarávarp til kve félaganna (Árborg, Geysir og Víðir) fyrir rausnarlegar viðtöku Að því búnu sagði forseti þingi slitið.

*Hólmfríður Danielson*, skrifari.

---

## SEVENTEENTH CONVENTION

Of the Lutheran Women's League, held at the Canadian Sunda School Camp, August 6th to 8th, 1941:

### August 6th at 2 p.m.—

Brief Devotional Service—Rev. B. A. Bjarnason.
Formal Opening of Convention—Mrs. S. Olafson, President.
Address of Welcome—Mrs. M. M. Jonasson .
Business meeting until 6 p.m.

### August 6th at 8.30 p.m.—

Devotional Exercises—Rev. E. H. Fafnis.
Violin Solo—Johannes Palson.
Paper—"Child Hygiene"—Mrs. F. Olason.
Vocal Duet—Lovisa Erickson, Kristin Thorsteinson.
Paper—On Patriotism—Mrs. E. P. Jonsson.
Violin Solo—Johannes Palson.
(Piano Accompanists—Miss Lilja Palson and Mrs. S. A. Sigurdso

### August 7th.—Business meetings all day.

### August 7th at 8 p.m.—

Devotional Exercises:
Minutes of Previous Meeting—H. Danielson, Secretary.
Choral Anthem—Arborg Lutheran Choir.
    Soloist—Hermann Fjeldsted.
Competition in Spoken Poetry—First Group.
Vocal Duet—Herman and Thor Fjeldsted.
Competition—Second Group.
Paper—"Courage"—Sella Johnson.
Adjudicators Report—Rev. R. Marteinson.
Presentation of Prizes.
Choral Anthem—Arborg Lutheran Choir.
    Soloist—Thor Fjeldsted.
Accompanist—Mrs. S. A. Sigurdson.

### August 8th at 9 p.m.—

Church Service—Rev. S. Olafson.
Address of Appreciation to the Ladies' Aids of Arborg, Geysir and Vidir—Mrs. L. Gislason.
Convention Closed—Mrs. S. Olafson, President.

## CONVENTION BUSINESS IN BRIEF

The Selkirk Ladies' Aid was heartily welcomed as a member of the Lutheran Women's League. Two honored guests of the Convention were bidden welcome; they were the dauntless ladies who have served so valiantly as cooks at the camp for three years: Miss Petra Jonasson, Winnipeg, and Miss Runa Jonasson, Vidir.

Fifty-six accredited representatives attended the Convention as follows: 29 delegates from 18 Ladies' Aids, and 27 members of committees and individual members. Reports were received from 19 societies.

*Finances*: The treasurer's report showed: Balance on hand last year, $217.12; Receipts, $123.20; Disbursements, $128.89; On Hand August 6th, 1941, $201.41.

THE FOLLOWING TOPICS WERE DISCUSSED:—

I. *"Ardis"*—The account showed a credit balance of $465.68. Over 500 copies were sold during the current year. A resolution was passed to permit the editors to publish English articles in "Ardis."

II. *Handicraft Exhibit*: This matter was left in the hands of the Executive of the L. W. L.

III. *Temperance*: Resolved to send two delegates to th Temperance Alliance Convention this fall. The following wer chosen: Mrs. H. F. Danielson and Mrs. Chriswell; Mrs. J. Tergese to be alternative delegate.

IV. *Program* for next year's meetings to be prepared by th Selkirk Ladies' Aid.

V. *Honorary Members*: Some of the Ladies' Aids make a prac tice of honoring their oldest members, possibly on their 70th birth day or else after a certain number of years of service in the societ

VI. *Contest in Spoken Poetry*: It is considered desirable tha the Ladies' Aids should sponsor or support children's choirs, o orchestras and other projects of cultural value to young peopl The gold medal contest now brings to a close the Contest in spoke poetry sponsored by the L. W. L. for five years with great succes Over 300 children have thus learned to know and love some of ou great and gifted Icelandic poets. The foundation has been firml laid for this work to be carried on in the different districts. Interes is very keen and growing steadily. Mrs. C. O. L. Chiswell, Giml donated $10.00 to this work.

VII. *Leadership Training Course*: The president thanked thos who have sacrificed their time and energy to make a success of thi most worth while project. The secretary gave a report showin that enrolled students have been: 1939, 45; 1940, 48. 1941, 5 Seven young people have attended the course all three years, an 12 have attended two years. The rent for the camp is $12 a da ($120) and cost of all necessities has risen, therefore the L. W. L has carried on this work at a financial loss. The question was pu before the convention: Are all members of the L. W. L. full resolved that this undertaking is of paramount importance an *must not be discontinued?*

The matter was discussed with vivid interest. The ministe present stated very definitely, that this endeavor of the L. W. L was already recognized as the big factor in building a firme Christian foundation in our church life, and especially in creatin new currents of interest and of faith among our young peopl They said furthermore: "We extend our grateful thanks to thi small band of women, the L. W. L., whose courage, loyalty an idealism, has launched the Leadership Training Course to a suc cessful start."

The possibilities were discussed of building a camp of our ow or in partnership with other Lutheran church groups.

A resolution was passed to carry on this work of Leadership Training, and also to create a fund for building a camp. The fund was opened with a transfer of $50.00 from the general fund and $50 from the "Ardis" fund, and donations from several individuals amounting to over $40.

VIII. *Elections of Officers*:

Hon. President—Mrs. F. Johnson, Winnipeg.
President—Mrs. Johanna Thorvardson, Arborg.
Vice-President—Mrs. A. S. Bardal, Winnipeg.
Recording Secretary—Miss Lilja Guttormson, Geysir.
Corresponding Secretary—Mrs. H. S. Erlendson, Arborg.
Treasurer—Mrs. Gunnl. Johannson, Winnipeg.
Vice-Treasurer—Mrs. E. S. Jonasson, Gimli.

*Executive*:

Mrs. B. B. Jonsson, Winnipeg.
Mrs. A. A. Sveinson, Glenboro.
Mrs. E. J. Hinrikson, Selkirk.
Mrs. K. Tomasson, Hecla.
Mrs. A. Blondal, Winnipeg.
Mrs. G. F. Jonasson, Winnipeg.
*Ardis* Editor—Mrs. O. Stephensen.
Assistant Editor—Mrs. S. Olafson.
Manager—Mrs. F. Johnson.
Assistant Manager—Mrs. M. M. Jonasson.

*Leadership Training Course Committee*:

Mrs. H. F. Danielson, Winnipeg.
Mrs. G. K. Stephenson, Winnipeg.
Mrs. J. Tergesen, Gimli.
Mrs. S. Olafson, Selkirk.
Mrs. V. J. Eylands, Winnipeg.
Mrs. S. Sigurdson, Winnipeg.
Miss Kristin Skulason, Geysir.

*Sunday School Work Convenor*: *Mrs. H. G. Henrickson,*

This brought to a conclusion the Seventeenth Annual Convention of the Women's Lutheran League.

H. DANIELSON, Secretary.

---

# Lúterska safnaðarkvenfelagið "Líkn" 25 ára

Félagið hófst með því, að 9 konur gerðu samtök sín á mill komu saman og mynduðu formlegan félagsskap, sem þær nefnd Blaine safnaðar kvenfélag. Nöfn þessara kvenna, eins og þau er skrásett í fyrstu fundargerðarbók félagsins eru: Mrs. Halldór Ingibjörg Ólafson, Mrs. Ingibjörg Johnson, Mrs. G. H. Olson, Mr Ingibjörg Thordarson, Mrs. Guðbjörg Thorarinson, Mrs. Steinun Ásmundson, Mrs. Guðrún Skagfjörð, Mrs. Bertha Danielson, Mr Ragnhildur Reykdal.

Fundargerð stofnfundar er þessi:

"16. júlí 1916 mættu 9 konur í húsi Mrs. Ólafson, þar vor lesin lög safnaðarkvenfélags, er var í myndun. Svo var gengið t atkvæða um lögin og þau samþykt í einu hljóði. Þar eftir fór fram embættiskosningar er féllu þannig: Mrs. Danielson, forset Mrs. Reykdal, skrifari; Mrs. Ólafson, féhirðir; Mrs. Thordarso vara-forseti; Mrs. Johnson, vara-skrifari. Mrs. Danielson bau félagskonum að mæta í húsi sínu á næsta fundi. Fundi slitið.- Skrifari, Ragnhildur Reykdal; forseti, Bertha Danielson."

Önnur lagagrein félagsins skýrir tilganginn og hljóðar sv "Tilgangur félags vors er að starfa að kirkjumálefnum til uppbyg ingar safnaðarstarfsemi, og yfirleitt allra kristilegra mannúða verka, að svo miklu leyti, sem við fáum áorkað." Fleiri meðlim bættust þessu félagi til næstu ársloka. Annað kvenfélag und nafninu "Líkn" var á sama tíma starfandi í þessari bygð, varð þa þá að samkomulagu beggja félaganna að sameina krafta sín gerðist það á fundi í janúar 1917 og varð sameiginleg álykta heildarinnar að nafn félagsins sé "Safnaðarkvenfélagið Líkn Meðlimatalan þá um 40 og hefir félagið frá þeim tíma starfað und því nafni. Embættisstörfum hafa gegnt eftirfylgandi konur:

(a) Forseti Mrs. Danielson, því nær 10 ár samfleytt og 2 á síðar; Mrs. J. J. Straumfjörð 3 ár; Mrs. Charles Wells 4 ár; Mr K. Brandson 2 ár, Mrs. Kristín Johnson 2 ár, Mrs. Sigríður Pálsso 2 ár. Núverandi forstöðukona er eiginkona safnaðarprestsins, fr Margrét Johnson, var kjörin í byrjun þessa árs og spáir góðu.

(b) Skrifarar: Mrs. Reykdal 1½ ár, Mrs. Straumfjörð 9 á Mrs. (Þóra) H. E. Johnson 1 ár, Mrs. Pálsson 1ár, Mrs. Matthildu Johnson 2 ár, Mrs. Ella Wells 4 ár; Mrs. Kristín Johnson 4 ár, Mrs. Vopnfjörð 2½ ár.

(c) Gjaldkerar: Mrs. H. I. Ólafson 2½ ár, Mrs. Kristín Lind 1 ár, Mrs. Guðfinna Stefánson 2 ár, Mrs. Bertha Danielson 4 á

Mrs. Svafa Ögmundson 3 ár, Mrs. Ólína Johnson 5 ár og Mrs. Ella Wells 7½ ár.

(d) Varaforsetar: Mrs. Ingibjörg Thordarson, 1½ ár, Mrs. Ragnhildur Reykdal 2 ár, Mrs. Lindal 1ár, Mrs. Ella Wells 3 ár, Mrs. Straumfjörð 3 ár, Mrs. Brandson, 2 ár, Mrs. Kr. Johnson, 2 ár, Mrs. Bertha Danielson, 5 ár og Mrs. Pálsson 5½ ár.

(e) Varaskrifarar: Ingibjörg Johnson 2½ ár, Hlaðgerður Björnson 4 ár, Mrs. Patterson 2 ár, Margrét Breiðfjörð 1 ár, Mrs. Straumfjörð 3 ár, Mrs. Pálsson 9 ár og Mrs. Kristín Johnson 3½ ár.

(f) Saumanefndir hafa skipað á ýmsum mislöngum tímabilum: Mrs. Benson, Mrs. Thorarinson, Mrs. Danielson, Mrs. Reykdal, Mrs. Straumfjörð, Friðrikka Davidson, Margrét Johnson, Mrs. Wells, Mrs. Thordarson, Guðfinna Stefánsson, Dora Johnson, Jóhanna Johnson, Mrs. Johnson, Ólöf Breiðfjörð, Jóna Reykjalín, Sarah Dickerson, Matthildur Johnson, Svafa Ögmundson, Mrs. Sarah J. Johnson, Kristín Johnson og Mrs. Olson.

(g) Í ullarvinnunefndum, til umsjónar við ullarteppi, tóskap o. fl. hafa starfað: Mrs. Benson, Mrs. Pálsson, Mrs. Danielson, Mrs. Thorbjörg Johnson, Mrs. Brandson, Mrs. G. Skagfjörð, Mrs. Veiga Sveinsson og Mrs. Vopnfjörð. Líka hefir frá byrjun verið kjörin nefnd til að sjá um að gefin séu blóm við kveðjuathafnir framliðinna meðlima og vina, og svo tvær konur til að yfirskoða reikninga félagsins árlega, og nefnd til eftirlits með húsinu síðan það var bygt.

Í embættiskvenna vali hefir félagið verið mjög lánsamt; sýndi það sig brátt í forystu hinnar fyrstu forstöðukonu Mrs. Berthu Danielson, sem með áhuga og dugnaði og hagsýni ávann sér það traust og hylli að hún hefir haft stjórn á hendi nærfelt helming þess tíma, sem félagið hefir starfað, og yfir höfuð hafa forstöðukonurnar hver af annari sýnt virðingarverða leiðtogahæfileika. Sama er að segja um aðrar embættiskonur, sem allar hafa gegnt því starfi sem þær hafa tekið að sér með nákvæmni og samvizkusemi, og allar nefndir hafa lagt á sig mikið verk, og óteljandi ómök í þágu starfseminnar. Ýmsar af félagsmeðlimum, bæði í og utan nefnda, hafa skarað fram úr í mismunandi atriðum, hver á sinn hátt, er það mikið virt og metið af heildinni, en bezta viðurkenningin er sjálfsmeðvitund hvers einstaklings.

Til inntekta fyrir félagið hafa þessar aðferðir verið viðhafðar: Fyrstu árin var árlega haldin ein skemtisamkoma á sumardaginn fyrsta, eitt skógargildi snemma sumars og að haustinu ein útsala á saumavarningi, prjónlesi, heimatilbúnum mat, skyri og rjóma, kaffisala á sama tíma, og hlutvelta á vönduðu ullarteppi. Kaffisölur hafa verið hafðar stöku sinnum þar að auki. Mörg ullarteppi eru líka búin til og seld á hverju ári og samskot tekin á starfsfundum.

Skógargildið var lagt niður fyrir allmörgum árum, en vorsala hö í þess stað. Tólf starfsfundir og jafnmargir vinnufundir eru hald ir á ári hverju, og aukafundir ef þörf þykir.

Inntektir yfir alt tímabilið reiknast $6,822.66; útgjöld $6,620.2 Til gamalmenna, sjúkra og bágstaddra hefir verið lagt $2,683.6 til kirkju í peningum, munum og borgun fyrir að halda hen hreinni yfir $2,000.00; til félagsbyggingarinnar $300.00 í peningu og svo innanstokksmunir. Önnur útgjöld teljast til blóma við jar arfarir, starfskostnaður allur, nokkrar smáupphæðir fyrir brúða gjafir til meðlima, sem hafa gifst, og fáeinir glaðningar til stö meðlima við sérstök tækifæri; til Betel í alt $50.00; til Rauða kros ins $5.00. Þakklætisskeyti hefir komið inn á desember-fundi 1919, fyrir peningagjöf í hjálparsjóð til Belgíu, upphæð ekki t greind, en tekið fram að það hafi verið peningar fyrir hlutavelt ullarteppi, sem hefði hepnast vel. Ótalin eru þau mörgu pör ullarsokkum, sem gefin hafa verið, og ekki tilfærð í reikninga. Í sjóði 1. janúar 1941, $83.70.

Fram á árið 1932 voru fundir haldnir í húsum félagsmeðlim og salur leigður fyrir skemtanir. Þá var ráðist í að byggja þet samkomuhús; stóð þá félagið í blóma að starfskröftum og meðlim tölu, sem var yfir 50. Forseti var ein af okkar starfsömus konum, Mrs. Oddný Brandson, beitti hún sér fyrir framkvæmdu með lipurð og dugnaði, og stóð öll félagsheildin, sem einn maður því máli. Leitað var samráða við söfnuðinn, og brást hann vel og er hér til skýringar samþykkt safnaðarnefndarinnar: "Tila var borin upp og samþykt í einu hljóði á safnaðarnefndarfun fimtudagskvöldið 15. september 1932 svohljóðandi: Safnaðarnef Blaine safnaðar lofar hér með að gera alt, sem í hennar val stendur til að hrinda í framkvæmd byggingu á fyrirhuguðu sa komuhúsi safnaðarkvenfélagsins "Líkn" með því að leggja fra alla vinnu ókeypis eftir því sem sjálfboðar kunna að fást til vinn Ennfremur býður nefndin fram lóð safnaðarins undir þetta fyr hugaða hús, með þeim skilningi að kvenfélagið skuli í framtíðin hafa umráð og eftirlit með húsinu." Og fyrir drengilega þátttö bæði safnaðarmanna og margra utansafnaðarmanna var verk unnið á tveimur mánuðum. Húsið var formlega opnað til afno með almennri samkomu fyrir troðfullu húsi, og lykillinn afhent forseta kvenfélagsins, Mrs. K. J. Brandson, af þáverandi safnaða forseta, Andrew Danielson, 22. nóv. 1932 og hefir kvenfélagið hald fundi sína og hina árlegu skemtisamkomu í því síðan. 189 da verk voru gefin til byggingarinnar og þar að auki fjárupphæðir efni af ýmsu tagi. Virðing þess er $988.16. Bygging þessa heimil fyrir félagið var spor í rétta átt stigið; félagið átti þá nokkurt á Blaine-bankanum og hefði það ekki verið dregið út þaðan áð en gjaldþrotið varð árið eftir, hefði það tapast að mestu.

Þetta eru þá í fáum, einföldum dráttum aðalatriðin úr aldarfjörðungs sögu þessa litla félags. Tuttugu og fimm ár eru ekki löng í veraldarsögunni, þó örlagaþrungnir atburðir skapist á skemmri tíð. Í hverjum smáum félagsskap varða breytingar þess tímabils miklu, margar konur hafa á þessum tíma horfið úr meðlimatölu kvenfélagsins fyrir burtflutning til fjarlægra staða og út yfir takmörk tíma og rúms, þeirra er allra minst með söknuði og þakklátum hug fyrir ljúfa samvinnu í liðinni tíð. Vegna þess að enn sem komið er, hefir það mál sem okkur þeim eldri var lagt á tungu þegar við lærðum að tala, nefnilega ísenzkan, verið notað við fundarhöld og í allri félagsstarfsemi hafa tiltölulega fáar yngri konur bæst í hópinn; félagið telur nú 28 starfandi meðlimi.

Um það að hve miklu eða litlu leyti því hefir tekist að ná tilganginum hefir almenningsálitið dómsúrskurðinn, en unnið hefir verið af ýtrasta megni, og eftir bezta skilningi. Eins og yfirleitt mun vera með kvenfélög, hefir þessi félagsskapur átt almennum vinsældum að fagna, margt eðallundað fólk, jafnt menn sem konur, bæði utan vébanda félagsins og innan, hefir velt steinum úr vegi, og drýgt inntektir þess, með því að rétta gjöfula hönd og sækja útsölur og skemtisamkomur þess. Fyrir allan stuðning, allan hlýleik í ýmsum myndum sem kvenfélagið "Líkn" hefir orðið aðnjótandi öll þessi ár, þakkar það af einlægum huga.

Svo langar mig til að minnast á örfá orð úr ljóði, sem eitt af allra helztu skáldum Íslands, lárviðarskáld sinnar tíðar, orti til kvenþjóðarinnar, og við eigum að honum látnum, eg á hér við séra Matthías Jochumsson. Þau leggja að sönnu ábyrgð á herðar, en fela á sama tíma í sér traust, sem hverri konu er metnaður í, að reynast trúlega. Orðin eru þessi:

"Í sálarþroska svanna
býr sigur kynslóðanna;
því hvar er menning manna,
ef mentun vantar snót."

Þetta hefir skáldið ekki sagt í þeirri meiningu að gera lítið úr menningu feðra, bræðra, eiginmanna og sona okkar, heldur sem bending um það að einhuga samstarf manns og konu sé óhjákvæmilegt í framsóknarbaráttunni á leið til fullkominnar mannúðar menningar.

Lengi lifi kvenfélagið "Líkn". Megi því aukast skilningur og kraftur til að vinna að nytsömum málefnum í umboði kærleikans.

*Samið hefir skrifari félagsins,*

*Mrs. Dagbjört Vopnfjörð.*

**Kvenfélag Herðubreiðar safnaðar Langruth**

Fundir annan laugardag í hverjum mánuði.

Forseti.. ..Mrs. J. Finnbogason
Forseti ...........Mrs. J. Hannesson
Skrifari...............Mrs. S. B. Olson
Féhirðir ...........Mrs. O. Oddsson

**Kvenfélag Baldursbrá Immanuel safn.**

BALDUR, Man.

Fundir fyrsta miðvikudag í hverjum mánuði.
Minningarstjóður Kristjáns Jónssonar til líknarstarfs.

**Missionar Félag Immanuel Safnaðar**

WYNYARD, Sask.

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði

**Kvenfélag Árdals safnaðar**

ÁRBORG, Man.

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði

Heiðursforseti:
Hólmfríður Ingjaldsson
Forseti ...........Þorbjörg Jonasson
Skrifari........Guðrún A. Erlendson
Féhirðir ...........Ingunn Fjeldsted

Kvenfélagið Freyja

GEYSIR, MAN.



Forseti...........Mrs. J. G. Skúlason
Skrifari ........ Mrs. S. Jakobson

**Kvenfélagið Björk Lundar, Man.**

Heldur fundi fyrsta föstudag í hverjum mánuði

Blómsveigasjóður
Þórðar Backmans til líknarstarfs.

**Kvenfélag Frelsissafnaðar**

að GRUND í ARGYLE



Fundur hadlinn fyrsta fimtudag í hverjum mánuði

Kvenfélagið "Fjólan"
Brown, Manitoba

Embœttiskonur:
Forseti........Mrs. Thorun Johnson
Skrifari........Mrs. Louisa Gislason
Féhirðir...........Mrs. Olavia Gillis



Öllum þeim sem auglýsa í þessu riti, vottar útgáfunefndin virðingu og þakklæti.



# Rauði Krossin



Íslenzkar Canada konur! Þið hafið unnið mikið fyrir Rauða krosinn síðustu tvö árin, eins og þið gerðuð þegar Norðurálfustríðið 1914—1918 stóð yfir. Haldið því áfram og gerið enn betur ef hægt er, því aldrei hefir verið meiri þörf á vinnu yðar, heldur en einmitt nú, í þarfir Rauða krossins.

*G. J.*